# DOMINICALE

ÞAD ER

# Gudspiøll

OG

# Pistlar,

Med Almeñelegum Collectum, sem
i Kyrkiu-Søfnudenum Lesast Ared um̄
kring, A Suñudogum, og ødrum Hatijdes og Helgedøgum; Pijningar-Historiu Vors HErra JEsu Christi, Bæn Epter hana, Epter Predikun a Suñudøgum, Vid
Confirmationina og a Bænadagen

Hier med fylger Hand-Book fyrer
Prestana, Epter Kyrkiuñar Ritual Jñriettud, um̄ Barna-Skijrn og Añad, Sem
Prestlegu Embætte vidvijkur, Hvørt
heñar Titulus utvijsar.

Selst Alment Jñbundiñ 18. Fiskum.

Prickt a Hoolum i Hialltadal,
Af Halldore Erikssyne, 1750

Marc. XVI.

Fared Ut Um̃ Allañ Heimeñ, Og Prediked EVANGELIUM Allre Skiepnu.



Psalm. XIX.

Peirra HLIODMUR Er Ut Geingeñ Um̃ Allañ Heimeñ.

Til



# Til Lesarans.

SOkum þess ad nockrer Prestar hier i Stiftenu hafa kvartad um̃ þad, ad fæcka tæke um̃ Vel-brwkanlegar Gudspialla Bækur a Kyrkiunum; Lijka summer, ad ei hefdu Ritualen, Eñ allt være ei i heñe, hønum Samhlioda, epter hvørium sier være þo tilhallded ad lisa; Þa hefe eg i HErrans Nafne viliad þiena þeim, og ødrum Guds Kieñe-Moñum med þessare Edition, Hvørre ad fylger Hand-Bookeñ (sem fyr) Eñ nu Jñrettud epter Kong CHRISTJANS Fimta (Haaloflegrar Myñingar) Kyrkiu Ritual, þar Kieñedoomenum er Allra-Naad-

rigast befalad sier epter honum ad
haga, so vel hier i Lande, sem annar-
stadar i Vors Allra-Nadugasta
Arfa Kongs og Herra, Kong
FRIDERICHS þess Fimta
Riikium og Londum, ad Uniformi-
tæt sie allrar Guds Pionustugi-
ordar medal Kiennemannana; Þvi
er ecke eitt i henne, helldur allt epter
Ritualnum; Liika eru Gudspioll-
enn, asamt Pistlunum, nidur-red-
ud epter þeirre Donsku Gudspia-
lla-Book, þryckttre i Kaupennhafn
1741. Vona eg þvi, ad þesse
miin Fyrerteckt, sem grunnd er af
Guds og Hans Kongl. Majest.
Allra-Nadugustu Velþocknan,
verde vel Upptekenn. Vale.

Hoolum HALLDOR
D. 18. Mart. Brinjoofsson.
1750. Sup. Hol. St.

* * *

Fyrsta



# Fyrsta Sunnudag i Adventu.

## Collectan.

## Vier vilium aller bidia.

Eyr HErra Gud, Vier bidium þig Aui mæktlega, upp vek þiina Makt og kom til vor, So vier mættum frelsast af þeim Hættasemdum sem yfer oss þrænga, vegna vorra Synda, Og ad vier mættum fyrer þijna Hiiälp verda Frelsader og Saaluhoolpner. Þu sem Lifer og Rijkier med Gude Fødur og þeim Heilaga Anda, Eirn sañur Gud, uñ allar Allder Allda.

## Pistelen skrifar St. Paall til Rom. 13. Cap.

Kiærer Brædur.) Og med þui ad vier vitum, einkum þa Stund, þad Time er upp ad rijsa af Svefnenum, af þui ad vor Heilsa er nær, helldur eñ þa vier trwdum. Nootteñ er umliden, Eñ Dagureñ tekur ad nalgast.

cogium þui af Verkeñ Myrkraña, Og Iſkrijdunſt Herklædum Lioosſins, ſo ad vier gonguin Sidſamlega, ſo ſem a Deige, Eige i Ofaute edur Ofdryckiu, Eige i Legu-Kofum og Munadar-Lijfe, Eige i Prættan og Ofundſijke. Helldur Iklædeſt þier DRottne JEſu Chriſto, Og laated ecke epter Holldenu, þeſs Gyrnder ad ræka.

Evangelium ſkrifar St. Mattþæus 21. Capitula.

I Þañ Tijma.) Og þa er þeir tokn ad naalgaſt Jeruſalem, Og komu til Betphage vid Fialled Olivett, wtſende JEſus Tvo ſijna Lærefveina, Og ſagde til þeirra: Fared þid i þad Kauptun ſem gagnvart ydur er, og ſtrax munud þid fiña Oſnu bundna og Folañ hiaa heñe, leyſed hana og leided til mijn. Og ef Einhvor ſeiger nockud til yckar, þa ſeiged, þad Herrañ hafe þeirra Þorf, og jafnſnart

mun hañ læta haug laus. Eñ had skiede so, ad uppfylltest hvad sagt er fyrer Spamanneñ, er so seiger: Seiged Dottureñe Zion: Sia, þiñ Kongur kiemur til þijn Hoogvær, sitiande a Ösnu, og a Fola klif bærrar Ösnu. Eñ Lærespeinarner geingu i burtu, og giórdu so sem JEsus baud þeim, Og leiddu med sier Ösnuna og Folañ, Og lögdu sijn Klæde yfer þaug, og settu hañ þar uppa. Eñ margt Foolk breidde sijn Klæde a Veigeñ, Og adrer hiuggu Kvistu af Triaunum, Og dreifdu þeim a Veigeñ. Eñ þad Foolked sem fyrer þeim gieck og epterfylgde, Kallade og sagde: Hosiaña Syne Davids, Blessadur sie sa sem kiemur i Nafne DRottens, Hosiaña i hædstum Hædum.

 Añañ

## Añañ Suñudag i Adventu.

### Collectan.

HErr HErra Gud Almættuge Fader, virdst ad uppvekia vor Hiørtu, ad tilbwa þijnum Eingietnum Syne Veigeñ, so ad vier fyrer hañs Tilkomu mættum þiena þier med hreinu Hiarta. Fyrer þañ sama þiñ Eingieteñ Son JEsum Christum, sem med þier lifer og rijker i Einingu þins Heilaga Anda, Eirn Gud um allar Allder Allda.

## Pistilleñ til Rom. 15. Cap.

Kiærer Brædur:) Eñ hvad sem skrifad er, þa er þad skrifad oss til Lærdooms, so ad vier fyrer Poleñmæde og Huggun Ritningañа, hefdum Vonena. Eñ Gud Poleñmædeñar og Huggunareñar giefe ydur þad, ad þier sieud samlinder ydar aa mille, epter JESU Christo, so ad þier mættud samhuga med einum Muñe, dyrka GUD og Fodur vors DRottens JEsu Christi. Þar fyrer añest hvør añañ Jñbyrdis, lijka so sem Christur añadest ydur Gude

til

til Heidurs. En̄ ea seige Christum hafa vered Pioonustu-Man̄ Um̄skurnaren̄ar, fyrer Guds San̄leika Saker, til Stadfestu Fyrerheitan̄a, sem til Fedran̄a hafa skied. En̄ þad ad heiden̄ Lijdur heidrar Gud, þad er fyrer Myskunsemena orded, epter þvi sem skrifad er. Fyrer þad vil eg DRotten̄ Vegsama þig a medal Heiden̄a Piooda, og þijnu Nafne syngia Lof.

## Gudspialled skrifar St. Luc. 21. Cap.

I Þan̄ Tijma. JEsus sagde til sijna Lærejvein̄a.) Þar munu skie Teikn a Soolu, Tungle og Stiørnum̄, og a Jørdu Kvalning Piooda og Orvinglan, Sioor og Bylgiur munu hlijooda, og Men̄ munu fyrer Hrædslu uppþorna, og af Epterbijdingu þeirra Hluta sem ad koma skulu yfer allan̄ Heimen̄. Þviad Kraptar Himnan̄a munu hrær-

 ast.

ast. Og þa munu þeir siaa Mañsins Son komanda i Skijunum med Makt og miklu Wellde; Eñ nær þetta tekur ad skie, þa lijted upp og upphefied ydar Høfud, af þvi ad ydar Endurlausn tekur ad naalægiast. Og hañ sagde þeim þessa Epterlijking. Skoded þier Fijkin-Tried, og øll oñur Trie, nær þeirra Alldin tekur wt ad sprijnga, þa vited þier ad Sumared er naalægt. So lijka nær þier siaaed þetta skie, þa vited ad Guds Rijke er naalægt. Sañlega seige eg ydur: Pad þesse Kynslood mun ei forgaanga, þaangad til ad allt þetta skier. Himen og Jord munu forgaanga, eñ mijn Ord for gaanga eige. Eñ vakted ydur siaalfa, ad ydar Hiortu of-þijngest ecke nockurn Tijma af of-aate og Of-Dryckiu, og med Umsorgun

þessa

þessa Lijfs Næringar, so ad eige kome þesse Dagur hastarlega yfer ydur, þvi lijka sem eirn Snara mun hañ koma yfer alla þa sem a Jordu byggia. Vered þvi alltijd vakande, og bidied, so þier mættud verduger vera, ad umflya allt þetta hvad epterkomande er, og ad standa so frame fyrer Mañsins Syne.

## Pridia Suñudag i Adventu.

Collectan.

Herra Gud, Vier bidium, hneyg þu Eyra þitt til vorra Bæna, og upplijs Myrkur vorra Hugskota, med Vitian þiñar Naadar. Þu sem lifer og rijker i Einingu hins helga, etc.

## Pistileñ skrifar St. Paall

1. Cor. 4. Cap.

Ar hallde oss hvor Madur fyrer, einkum fyrer Guds Þienara og Verkstioornara yfer Guds Leyndardooma. Eñ nu heimtest ei meira af Verkstioornurunum, eñ þad þeir fiñest

 trwer,

erwer. Þvi er mier þad fyrer minsta
Kóste, ad eg skule af ydur dæmast, eda
af Mannlegum Deige. Enn þo dæme eg
ecke sialfur mig. Þvi eg er einskis Hlut-
ar medvitande, enn af þvi em eg þo ecke Ri-
ettlætur. DRottenn er sa sem dæmer
mig. Fyrer þvi dæmed ecke fyrer Tijm-
ann, þangad til ad DRottenn kiemur, sa
ed auglijsa mun þad i Myrkrunum er hul-
ed, og openber giora Rad Hiartnanna.
Og þa mun hvørium sem einum Lofstijr
skie af Gude.

## Gudspialled skrifar St. Matth. 11. Cap.

I Þann Tijma. Enn þa ed Jo-
hannes heyrde i Bondunum
Verkenn Christi, sende hann
wt Tvo af sijnum Læresveinum og
liet segia honum: Ertu sa sem ko-
ma skal, eda eigum vier ad vænta
eins annars? JEsus svarade og
sagde til þeirra: Fared aptur og
kunngiored Johanni hvad þier siaed
og

og heyred: Blinder faa Syn, Hallter gaanga, Lijkþraaer hreinsast, Daufer Heyra, Dauder uppríjsa, og Faatækum verda Gudspiallen̄ bodud, og sæll er sa sem ecke hneyxlar sig aa mier. En̄ ad þeim i burtgeingnum, hoof JEsus ad seigia til Foolksins af Johan̄e. Hvad foorud þier wt aa Eydemørku ad siaa? Reyr þan̄ sem af Vinde er skieken̄? Eda hvad foorud þier ad siaa? Man̄ miwk-klæddan̄? Siaaed, ad þeir sem miwkan̄ Klæd nad bera, eru i Kongan̄a Hwsum. Eda hvad foorud þier ad siaa? Eirn Spaaman̄? Eg seige ydur fyrer San̄: Þan̄ meire er en̄ nockur Spaaman̄, þviad þesse er sa, af hvorium skrifader. Siaa þu, ad eg sende min̄ Eingel fyrer þin̄e Auzsyn, Sa er þin̄ Veg skal tilreida fyrer þier.

## Fioorda Suñudag i Adventu.

### Collectan.

Almattuge Eilijfe Gud, vier bidium þig, ad þu komer, og later þitt Almætte skyna yfer oß aumar Mañeskiur, ad hvad hellst sem vorar Synder ydduglega forhindra og hamla, þad sama mætte þa oß veitast, fyrer Hiaalp þiñar Naadar og Myskunar. Fyrer þiñ Son JEsum Christum, sem med þier og etc.

### Pistilleñ til Phllipp.

4. Cap.

(Elskuleger Brædur.) Gledied ydur i DRottne alla Tijma, Og eñ aptur seige eg, Gledied ydur. Ydar Hoogværd sie kuñug ollum Moñum. Þviad DRotteñ er Nalægur. Vered ecke Hugsiwker, helldur lated ydar Bæner i ollum Hlutum, J Bænahallde og Akalle med Þackargiord fyrer Gude kuñar verda. Og Fridur Guds, sa hærre er ollum Skilninge, Vardveite ydar Hiortu og Skilningarvit, J Christo JESU.

Gud-

Desse er Vitnisburdur Johañ
is, Pa Gydingar sendu af Je
rusalem Presta og Levita, ad
þeir skylldu spyria hañ ad, Hvør ert
þu? Og hañ medkiendest og neit-
ade þvi ecke. Og hañ medkiendest,
Segiande: Eige em eg Christur.
Og þeir spurdu hañ eñ þa ad, hvad
þa? Ert þu Elias? Hañ sagde, ei
em eg. Ert þu þa Spamadur?
Og hañ svarade, Nei, ecke. Pa
søgdu þeir vid hañ. Hvør ert þu
þa? So ad vier meigum Andsvar
giefa þeim er oss wtsendu. Hvad
seiger þu af sialfum þier? Hañ
sagde: Eg em hroopanda Rødd i
Eydemørku, Greide þier Gøtu
DRottens, So sem sagde Esajas
Spamadur. Og þeir sem wt
voru sender, voru af Phariseis. Og

þeir spurdu hañ ad, og søgdu til hañs. Þvi skijrer þu þa, Fyrst þu ert ecke Christur, Eige Elias, og eige Spaamadur? Johañes svarade þeim og sagde: Eg skijre i Vatne, Eñ sa stood i Mided hiaa ydur, hvorn þier þecktud eige. Hañ er sa sem epter mig mun koma, hvor ed var fyrer mig, hvørs Skoohvein ge eg em ei verdugur upp ad leysa. Þetta skiede i Bethabara, Hinnmegeñ Jordanar, Þar sem Johañ es skijrde.



## A Joola-Dageñ.

### Collectan.

HEyr Almættuge, Eilife Gud, Vier bidium Þeit þu oss, ad þijns Einka Sonar Nija Fæding, mætte frelsa oss, hvørium sa Gamle Þrældoomur helldur under Syndareñar Ote, Fyrer þañ, etc.

### Pistelleñ til Hebræos

1. Cap.

Elsku-

Efkuleger Brædur.) Med þvi ad Gud hefur Fordum margfalld lega, og med morgum Hauttum, talad til Fedraña fyrer Spameñena, eñ nu hefur hañ allra sijdast a þessum Dogum til vor talad fyrer Soneñ, hvorn hañ sette Erfingia yfer alla Hlute, fyrer hvorn hañ hefur eirneñ Verolldena skapad. Hvor helldst (med þvi hañ er Lioome hañs Dyrdar, og Imynd hañs Veru) berande er alla Hlute med Orde sijns Kraptar, Gioraude Hreinsun vorra Synda, fyrer sig sialfañ, sette sig til Hægre Handar Tigneñe a Hædum, so myklu ædre ordeñ Einglunum, sem hañ hefur miklu framar þeim erft eitt hærra Nafn. Þviad til hvors af Einglunum hefur hañ nockurn Tijma so sagt? Þu ert miñ Sonur, J Dag Ol Eg Þig.

## Gudspialled Lucæ 2. Cap.

Þañ Tijma.) Og þad bar til a þeim Dogum, ad þad Bod gieck wt fra Keysaran-

um Augusto, pad Heimurenn allur skyllde Skattskrifast. Pesse Skattskrift hoofst fyrst upp, pa Cyrenius var Landstioornare i Syria. Og peir fooru aller ad laata Skattskrifa sig, Hvor til sinnar Borgar. Pa foor og Joseph af Galilæa wr Borgenne Nazareth, upp i Judæam, til Davids Borgar Bethlehem, af pvi ad hann var af Hwse og Kyne Davids, So ad hann liete Skattskrifa sig par med Mariu sinne Festar-Konu Oliettre. Enn pad skiede so, Pa ed pau voru par, ad peir Dagar fullnudust, ad hun skyllde fæda, Og hun fædde sinn Frumgietenn Son, og vafde hann i Reyfum, og lagde hann nidur i Jotuna, pviad hun sieck eckert annad Rwm i Giesta-Herbergenu. Og Fiaar-Hirdarar voru par i sama Bygdarlage umm Grandana vid

Fiaar-

Fiaar Hwſeñ, ſem geimdu og voktu
yfer Hiörd ſiñe um Noottena. Og
ſiaa þu, þad Eingell DRottens
ſtood hiaa þeim, og Guds Byrte
lioomade i kriingum þa, og þeir ur-
du miøg Ottaſlegner. Og Ein-
gelleñ ſagde til þeirra: Hirded þier
ecke ad hrædaſt. Siaed, eg boda
ydur myfeñ Fognud, þañ er ſkier
øllu Foolke: Þviad i Dag er ydur
Lauſnareñ fæddur, ſaa ad er Chriſt-
ur DRotteñ i Borgeñe Davids.
Og hafed þad til Merkis, ad þier
munud fiña Barned i Reyfum
vafed, og lagt vera i Jotuna. Og
jafnſnart þa var þar hiaa Einglen-
um mykell Fiølde Himneſkra Her-
ſveita, ſem Lofudu Gud og ſøgdu:
Dyrd ſie Gude i Upphædum, Og
Fridur aa Jørdu, Og Moñum
goodur Vilie.

*** *** ***

St.

## St. Stephani Dag.

Collectan.

HEyr HErra Gud, Gief oss ad epterfylgia hans Dæmum, hvørs Hatijd vier i Dag hølldum, so vier mættum læra ad elska vora Ovine, lijka sem han bad fyrer sijnum of-sookn-ar Mönum. Fyrer vorn HErra JEsum Christum, hvør med þier og helgum Anda, lifer og rijker eirn Gud um Allder Allda, Amen.

### Pistillen i Giørninga Book Post. 6. og 7 Cap.

J Þeim Dogum.) Og Stephanus fullur af Trw og Styrkleika, took ad giøra Stoormerke og Takn mikel ai medal Foolksins. Þa stoodu upp nockrer af þeirre Samkundu, sem kallast Libertinorum, Cyrenorum og Alexandrinorum, og þeirra sem voru af Cilicia og Asia, þreytande Spurningar vid Stephanum; Og þeir gatu ecke mootstaded þeirre Speke, nie þeim Anda, af hvørium han talade. Þa sendu þeir wt Men sem seigia skilldu sig heyrt hafa han mæla Hadungar Ord,

i moote

i mööte Gude og Mose, Og æstu so upp Lijdenn og Olldungana og hina Skriptlærdu, hlupu ad og gripu hann, burtleiddu fyrer Raaded, og settu til Liwgvotta sem segia skylldu: Þesse Madur lætur ei af ad tala Haadyrde, i giegn þessum heilaga Stad og Løgmaalenu. Þvad vier heyrdum hann segia: Pad JEsus af Nazareth munde þennann Stad nidurbrioota, og umhverfa þeim Setningum er Möses hefur ofs giefed. Og aller þeir i Raadenu satu, horfdu aa hann, og saau ad hanns Asiaana var so sem Eingels Asiaana. Enn þa þeir heyrdu þetta: Skaaruft þeir i sijnum Hiortum, og gniistu Tønnum yfer honum. Enn med þvi ad hann var fullur af heilogum Anda, hoof hann upp sijn Augu til Himens, og saa Guds Dyrd, og JEsum standa til Hægre Handar Gude, og sagde: Siaaed, Ad eg sie Himnana opna, og Mannsins Son standa til Guds Hægre Handar. Enn þeir kolludu upp haarre Roddu, og samannbyrgdu sijn Eyru, og giordu hønn

unn

um Araus med einum Samdrætte, hne-
ptu hañ wt af Borgeñe, og griijttu hañ.
Eñ Vottarner logdu siin Klæde til Foo-
ta þess Ungmeñis er Saul hiet, og lom-
du Stephanum med Grioote. Eñ hañ
kallade, og sagde: HErra JEsu, med-
tak þu miñ Anda. Og hañ kraup nid-
ur, og kallade hærre Röddu, O Rotteñ,
Legg þeim ecke til þessa Synd. Og sem
hañ hafde þad sagt, Sofnade hañ.

## Gudspialled St. Matthæi
23. Cap.

Þañ Tijma. Sagde JEs-
us til Gydinga Foolksins og
Hofdingia Kieñemañaña :)
Siaaed; Eg sende til ydar Spa-
meñ, Spekinga og Skriptlærda,
og nockra af þeim munud þier af-
lijfa og Krossfesta, og suma mun-
ud þier Hwdstrijkia i Samkundu
Hwsum ydar, og af añare Borg
i adra munud þier þaa of-sækia, so
ad yfer ydur kome alit Riettlaatt
Blood

Blood sem ai Jordena wthellt er
i frai Bloode Abels Riettlaata,
allt til Bloods Sachariæ Sonar
Barachiæ, hvorn pier draipud ai
millum Musteris og Alltaris.
Saũlega seige eg ydur: Ad allt
þetta mun koma yfer þessa Kyn-
slood. Jerusalem, Jerusalem,
þu sem aflijfar Spaameñena, og
grijter þai er til þijn eru sender;
Hvørsu opt hefe eg viliad samañ-
safna Sonum þijnum, lijka sem
Hænañ samañsafnar Ungum sijn-
um under Vænge sier, og þier haf-
ed ecke viliad? Siaied, ydar Hws
skal ydur i Eyde laated verda. Py-
iad eg seige ydur: Ad þier munud
eige siai mig upp frai þessu, þaan-
gad til þier seiged: Blessadur sie
sa sem kiemur i Nafne DRottens,

* * *
** ** **

St.

## Collectan.

HErr HErra Gud, Upplys Naadarsamlega þiñ Lijd, So ad hañ upplystur fyrer Lærdoom og Gudspiallsins Kieñingu hins Heilaga Johañis, mætte saa og ødlast þijna Naad og Eilijfa Glede, Fyrer vorn HErra JEsum Christum, etc.

## Pistilleñ til Titum
2. Cap.

ALlra Kiæraste.) Heilsusamleg Naad Guds er auglioos ordeñ ollum Moñum, og kieñer oss, ad vier skulum afneita Ogudlegu Athæfe, og Veralldlegum Gyrndum, og lifa Sparlega, Riettferduglega og Gudlega i þessum Heime, og bijda epter þeirre Sælu Von og Dyrdar Auglijsing hins mikla Guds, og vors Lausnara JEsu Christi. Sa sem sialfañ sig hefur giefed wt fyrer oss, uppa þad hañ Endurleyste oss fraa ollu Oriettlæte, og hreinsade sier sialfum Foolk til Eignar, þad sem kostgiæfed være

til

til goodra Verka. Þetta skallt þu tala og aminna, Og straffa med allre Kostgiæfne.

## Gudspiallед skrifar St. Johann. 21. Cap.

I Þann Tijma, Sagde JEsus til Peturs, Fylg þu mier epter. Petur snere sier vid, og leit þann Læresvein Epterfylgianda sem ad JEsus Elskade, Sa er og umm Kvølldmaaltijdena hafde a hanns Briooste leiged, og sagt, HErra, Hvør er sa er þig forrædur? Þa ed Petur leit nu þennan, seiger hann til JEsu: HErra, hvad skal þesse? JEsus seiger til hanns: Ef eg vil hann blijfe til þess eg kiem, Hvad kiemur þad vid þig? Fylg þu mier epter. Þa gieck su Ordræda at medal Brædranna, þesse Lærisveirn deyr ecke. Og JEsus sagde eige til hanns, Hann deyr eige, Helldur ef eg vil

vil hañ blijfe til þess eg kiem; Hvad kiemur þad vid þig? Þesse er sa Læresveirn, er uñ þetta ber Vitne, og þetta skrifade, Og vier vitum ad hañs Vitnisburdur er sañur.



## Suñudageñ millum Joola Dags og Atta.

### Collectan.

HErr Almaattuge eilijfe Gud, Stiovorna oss og ollu voru Framferde, epter þijnum Vilia, so vier mættum i Nafne þijns elskulega Sonar verda Auduger i goodum Verkum. Fyrer þañ sama DRotteñ vorn, etc.

### Pistelleñ til Gal.

4. Cap.

ELskuleger Brædur.) Eñ eg segie: So leinge sem Erfingeñ er Barn, þa er aa millum hañs og Þioonsins eingeñ Greinarmunur, þo ad hañ sie Herra alls Gootsens, helldur er hañ under Forveriurum og Fiaarhallds-Moñum, allt til æsetts Tijma af Fodurnum.

nüm. Lijka vier eirneñ, þa vier vorum Born, vorum vier þrælkader under þessa Heims Setningum. Eñ þa Uppfylling Tijmans var komeñ, wtsende Gud siñ Son, Fæddañ af Kviñu og Logmaalenu underorpeñ, uppaa þad, hañ frelsade þar sem under Logmaalenu voru, so ad vier medtækium Sonarleifdena. Eñ med þvi þier erud Borneñ, hefur Gud sendt Anda siins Sonar i ydar Hiortu, Kallande, Abba, Kiære Fader. So er hier nu eingeñ Præll meir, helldur Born ein, Eñ sieu þad Born, þa eru þad og eirneñ Arfar Guds, fyrer Christum.

## Gudspialled skrifar St. Luc. 2. Cap.

OG hañs Fader og Mooder undrudust þad, hvad af hönum sagdest: Og Simeon blessade þau, og sagde til Mariu Moodur hañs: Siaa þu, Þesse er settur til Falls og Uppriisu marg(r)a i Israel, Og til Merkis, hvørju i mooti

mgote mun mælast. Og siaalf-
rar þiñar Aund mun Sverd i gieg-
num smiyga, So ad anglioos ver-
de Hugskots Hiortu margra. Og
þar var þa Anna Spaa Kona,
Dootter Phanuels af Kyne Asser,
Hun var og komeñ til siña Aara,
og hafde lifad i Sio Aar med siin-
um Eignar-Mañe fraa Meydoo-
me siinum. Og þesse Ekkia hafde
nær Fioora Vetur um̃ Attrædt,
Hvør ed eige gieck wr Musterenu,
Pioonande Gude Noott og Dag,
med Føstum og Bænahallde. Þesse
gieck Samstundis þaangad ad, og
Prijsade DRottenñ ; og sagde af
hønum til allra þeirra sem Endur-
lausnareñar bidu til Jerusalem.
Og er þau høfdu allt fullgiort ept-
er Løgmaale DRottenñs, sneru þau
aptur i Galileam til Borgar siñar
Nazareth. Eñ Sveirneñ voox
upp

upp og styrktest i Anda, Fullur Vijsdooms, Og Guds Naad var med hønum.

## A Nyaars Dag.

### Collectan.

HErr HErra Himneske Fader, sem liest þinn eingietenn Son verda Løgmaalenu Undergiefenn, og nuństierast aa Attunda Deige, Løgmaaled upp ad fylla, vegna þeirra sem Løgmaalsins Bølvan voru undergiefner. Vier bidium þijna Myskunseme, ad þu vilier Andlega umskiera vor Hiørtu, fraa øllum vondum Girndum. Fyrer þann sama, etc.

### Pistillenn til Gal. 3. Cap.

ENN aadur enn þad Trwenn kom, þa vorum vier vardveitter under Løgmaalenu, innelucktter uppaa þa Trw, sem openber skyllde verda. Þar fyrer var Løgmaaled vor Typtunar-Meistare til Christum, so ad vier riettlættunst fyrer Trwna. Enn nu sem Trwenn er komenn, þa erum vier ecke leingur unde-

er Typtunar Mañenum. Þviad aller erud þier nu Guds Born, fyrer Trwna a Christum. Þvi, so marger af ydur sem erud skijrder, þier hafed Jklædst Christo. Hier er ecke Gydingur nie Grickur, eige Þræll nie Frelsinge, eige Karl nie Kviña. Þviad aller þier erud eitt i Christo JEsu. Eñ fyrst þier erud Christi, þa erud þier Sæde Abrahams, og epter Fyrerheitenu Erfingiar.

## Gudspialled Luc. 2. Cap.

I Þañ Tijma.) Epter þad ad Atta Dagar voru lidner, Og þad Barned skyllde uñskierast, Var hañs Nafn kallad JESUS. Hvad er kallad var af Einglenum, adur eñ þad hañ var Gieteñ i Moodur-Kvide.



## Suñudagen mille Atta Dags og Prettanda.

### Collectan.

O HEr

O HErra Gud, Himneske Fader, Þu sem lietst þiñ kiæra Son JESUM Christum verda Framande og Utlendañ i Egyptalande fyrer vora Skulld, og færder hañ heilañ heim aptur til sijns Fødurlands. Vier bidium þig, gief oss þijna Naad, ad vier aumar Mañeskiur sem erum Framande og utlender i þessum Haaskasama Heime, mættum snarlega komast til Himnarijkis og heim i vort rietta Fødurland, þar ad lifa i Dyrd og Glede Eilijflega. Fyrer þañ etc.

## Pistilleñ til Rom.

### 3. Cap.

ENN vier vitum, ad hvad hellst sem Logmaaled segier, þad segier Þad þeim, sem eru under Logmaalenu, ad sierhvør Muñur tilbyrgest, og allur Heimureñ verde vid Gud Saknæmur: Fyrer þvi gietur af Verkum Logmaalsins eckert Holld riettlaatt orded fyrer hañs Augsyn, þviad fyrer Logmaaled kiemur Þecking Syndareñar. Eñ nu er aan Logmaalsins Riettlæte Guds Opeñberad, um̃ hvort vitnad er af Logmaalenu og Spaamoñunum. Jaa, Riettlæte Guds fyrer Trwna aa JEsum Chri-

stum, til allra og yfer ollum, sem trwa.

Gudspialled St.
Matth. 2.

EN þegar Herodes var dadudur, Siaa, þa Openberadest DRottens Eingell Joseph i einum Draume i Egyptalande. Segiande: Statt upp, og tak Barned og Moodur þess, og far burt i Israels Land, þvi þeir eru dauder sem sooktu epter Lijfe Barnsens. Þa stood hañ upp og took Barned og Moodur þess og kom i Israels Land. Eñ þa hañ heyrde, ad Archelaus være Konungur i Judæa i sijns Fodurs Herodis Stad, ottadest hañ ad koma þangad; Eñ hañ var vidvaradur af Gude i einum Draume, og veik burt i Endemerkur Galilææ. Og kom og bioo i eirnre Borg, sem nefndest Nazareth, so ad þad skilde

de fullkomnast, sem sagt er fyrer Spaamenena: Ad hañ skyllde Nazaræus kallast.

## A Prettanda Dag.

### Collectan.

HErr Almattuge, Eilijfe Gud, Sem med Leidarvijsan Eirnrar Stiørnu Opeñberader Vitringunum þiñ Eingieteñ Son, Vier bidium þijna Myskunseme, Upptendra þitt Lioos i vorum Hugskotum,þad sem þu uppvakter i Hiørtum þessara Vitringa Fyrer þiñ Son, etc.

### Pistilleñ Esa. 60. Cap.

SO segier DRotteñ Gud.) Rijs upp Jerusalem og vert klaar, þvi ad þitt Lioos kiemur, og Dyrd DRotteñs er uppruñeñ yfer þier. Þvi ad siaa þu, ad Myrkred mun hylia Jordena, og Diñañ Piooderner. Eñ Drotteñ mun uppreña yfer þier, og hañs Dyrd mun siaast yfer þier, og Heidingiarner munu gaanga i þijnu Lioose, og Kongarner i Liooma þijns Uppruna. Upplyptu

þijnum Augum og skoda um̃ krijng, aller þesser eru samañsafnader, og koma til þijn. Þijner Syner munu koma af Fiærlægd, og þijnar Dætur munu uppfoostrast ad baadum Sijdum. Þa munt þu siaa og fagna, og þitt Hiarta mun undrast, og wtbreida sig, Nær ed sa Margfiollde Siafarens mun snwast til þijn, og Styrkleike. Heidingiaña kiemur til þijn, Fiollde Wlfbalدaña mun hylia þig, Dromedarii af Madian og Epha. Aller munu af Saba koma, færande Gull og Reykelse, og kuñgiorande Lof DRottens.

## Gudspialled St. Matth.
2. Cap.

NEr ed JEsus var Fæddur i Betlehem aa Gydinga-Lande, aa Dogum Herodis Kongs. Siaa þu, þa komu Vitringar af Austur-Alfu til Jerusalem, og sogdu: Hvar er sa nyfædde Kongur Gydinga? Þviad vier hofum sied hans Stiornu i Austur-

Veige,

Veige, og erum komner ad tilbidia
hañ. Eñ er Herodes Kongur heyr-
de þad, skielfdest hañ og øll Jeru-
salem med hønum. Og hañ liet
Samañsafna øllum Kieñemaña
Høfdingium og Skriftlærdum
Lijdsins, og forheyrde af þeim, hvar
Christur skyllde fædast. Eñ þeir
søgdu hønum. J Bethlehem aa
Gydinga Lande. Þviad so er skrif-
ad fyrer Spaamañeñ. Og þu
Bethlehem aa Gydinga Lande, ert
aungvañveigeñ hin minsta aa med
al Høfdingia Juda, þviad af þier
mun koma Hertoge sa, ed stioorna
skal yfer mitt Foolk Jsrael. Þa
kallade Herodes Vitringana Hel-
muglega til sijn, og spurde þa iñe-
lega ad, aa hvørium Tijma þad
Stiarnañ hafde byrtst þeim, og
vijsade þeim til Bethlehem, og sag-
de: Fared þier, og spyried vand-

 lega

lega ad Sveinenum, og nær þier fiñed haň, þa kuñgiored mier þad aptur, so ad eg kome eirneñ ad tilbidia haň. Sem þeir hofdu nu ‚hlijdt Konungenum, fooru þeir af Stad. Og sia þu, ad Stiarnaň sem þeir hofdu sied i Austur-Alfu, gieck frame fyrer þeim, allt þar til hun kom og stood þar uppe yfer, hvar ed Barned var. Eñ er þeir saau Stiornuna, glöddust þeir af miklum Fognude, og geingu i Hwsed iñ, og fundu þar Barned, med Mariu Moodur þess, fiellu fraň og tilbaadu þad. Og ad upploknum sijnum Fiaarsioodum, Offrudu þeir þvi Giafer, Gull, Reykelse og Myrru. Og feingu Avijsan i Svefne, ad þeir kiæme ecke aptur til Herodem, Og fooru aňaň Veg aptur i sitt Land.

* * *

Fyrsta

Fyrsta Sunnudag epter Prettanda.

## Collectan.

HErra Himneskur Fader! Vier bidium þig, Veit þu Gyrnd þijns bidiandi Lijds, ad hann mætte sjaa og skilia hvad riett er, og ad gieta þad sama giört og framkvæmt med Verke. Fyrer þinn Son JEsum Christum.

## Pistillenn Rom. 12.

Kiærer Brædur.) Fyrer því beide eg ydur fyrer Myskunseme Guds, ad þier giefed ydar Lijkame til þess Offurs, sem lifande er og Heilagt, og Gude þacknæmt, hvort ad er ydar skynsamleg Þioonusta. Og hegded ydur ecke epter þessum Heime, helldur umbreyted ydur i Endurnyung ydars Hugskots, so ad þier meiged reyna, hvør ad sie goodur, þægur og algiordur Guds Vilie. Þvi ad eg segie fyrer þa Naad sem mier er giefenn, Hvørium sem Einum ydar æ mille, þad einginn hallde meira wt af sier, enn honum byriar af sier ad hallda, helldur hall-

de hañ wt af sier Hooflega, epter þvi sem Gud hefur wtskipt Hvorium og Einum Mæler Trwareñar. Þvi ad lijka so sem vier hofum marga Limu a Einum Lijkama, Eñ aller Limerner hafa þo ecke lijka Hegdan. Lijka so erum vier og so marger Eirn Lijkame i Christo, Eñ vor a millum erum vier hvor añars Limur.

## Gudspialled St. Lucæ
2. Cap.

I Þañ Tijma.) Og þa ed hañ var Toolf Aara gamall, fooru þau upp til Jerusalem, epter Sidveniu Hatijdardagsins. Og er þeir Dagar voru lidner, Og þau fooru Heimleidis, vard Barned JEsus epter i Jerusalem, og hañs Forelldrar vissu þad ecke. Eñ þau meintu þad, ad hañ være hiaa Selskapnum, Og voru so komeñ Eina Dag-Ferd, og leitudu hañs medal Frænda og Kuñingia. Og

þa

þa ed þaug fundu hañ ecke, geingu
þau aptur til Jerusalem, og leitudu
ad honum. Eñ þad skiede so epter
Þriar Daga, ad þau fundu hañ i
Mustereinu, Sitiande midt a mille
Lærefedrañа, heyrande þeim og ad-
spyriande þa. Eñ aller þeir er hañ
heyrdu, undrudust yfer hañs Skil-
ninge og Andsvørum. Og er þau
sau hañ, hnickte þeim vid. Eñ
hañs Mooder sagde til hañs: Son
miñ, Þvi breytter þu so vid ockur?
Siaa þu, Fader þiñ og eg leitudum
Harmþrwngeñ ad þier. Og hañ
sagde til þeirra. Hvad er þad þid
leited ad mier? Vissud þid ecke ad
mier byriar ad vera i þeim Hlutum
sem mijns Fødurs eru? Eñ þaug
underſtoodu ecke þetta Ord, sem hañ
mælte til þeirra. Og hañ foor
med þeim ofañ, og kom til Naza-
reth, var þeim og hlijdeñ. Eñ ha-

ns Mooder geymde oll þesse Ord i siinu Hiarta. Og JEsu jookst Alldur og Vitska og Naad hiaa Gude og Mønnum.

## Annan Sunnudag epter Prettanda.

### Collectan.

O Þu Almaattuge, Eilijfe Gud! sem stioornar ollum Hlutum aa Himne og aa Jørdu, Heyr þu misskunnsamlega Bæner þijns Lijds, og gief Frid um vora Daga Fyrer vorn HErra JEsum Christum.

### Pistillen Rom.

12. Cap.

Elskuleger Brædur.) Enn vier hofum margháttadar Giafer, hvor epter þeirre Naad sem oss er giefen. Hafe nockur Spaadoom, þa sie han epter riettre Trwarennar Reglu. Hafe nockur Embætte, þa giæte han þess Embættis. Ef kienner nockur, þa vakte han þa Kienningu. Hvor han aaminner, hygg

bygge hañ ad birre Amyñingu. Hvør hañ giefur, þa giefe hañ i Einfalldleika. Hvør hañ stioonar, þa stioorne hañ med Abyggiu. Fremur nockur Myskunseme, þa giore hañ hana med Goodfiise. Elskañ sie Fiærdar aus, hated þad hid Von da, eñ loded a þvi enu Gooda. Broodurlegur Kiærleike sie astwdlegur ydar a mille. Hafe hvør añañ sier i Virdingum ædra. Vered eige later i þvi sem þier eiged ad viña. Vered glooande i Andanum, DRottne þioonande. Hegded ydur epter Tijdeñe. Vered glader i Voneñe, eñ þoleñmooder i Kvoleñe. Stadfaster i Bæneñe, og añest Naudþurfter Heilagra: Kostgiæfed ad vera Giestrisner. Blessed þa sem ydur ofsækia. Blessed eñ bølved eige. Fagned med Fagnendum, eñ grated med Græatendum. Vered samhuga Jnbyrdes. Stunded eige a þad sem hatt er, helldur lwted ad þvi sem lagt er.

Gudspialled St. Joh.
2 Cap.

I Pañ Tijma.) Par giørd-
est Brwdkaup i Cana Gali-
lææ, og Moodur JEsu var
þar. Eñ JEsus og hañs Lære-
sveinar voru og bodner til Brwd-
kaupsins. Og er þa þraut Vijn,
sagde Mooder JEsu til hañs: Pe-
ir hafa ecke Vijn. JEsus sagde
til heñar: Pu Kviña; Hvad hefe
eg med þig? Mijn Stund er eñ
ecke komeñ. Mooder hañs sagde
til Ploonustu-Mañaña: Hvad
hellst hañ seiger ydur, þad giøred.
Eñ þar voru Sex Stein-Kier sett
epter Veniu Ebreskra Maña Hre-
insunar, og hvørt Eitt took Tvo
edur þriaa Mæler. JEsus sag-
de til þeirra: Fylled upp Kiereñ
af Vatne; Og þeir fylltu þau
allt aa Barma. Og JEsus sag-
de til þeirra: Helled nu aa, og
færed Kiæmeistaranum, og þeir
færdu

færdu honum. Eñ þa Kiæmeistareñ smackade Vatned, þad ad Vijne var orded; Og hañ visse ecke hvadañ þad kom, (eñ Pioonustu-Meñerner sem Vatned sooktu, vissu þad.) Þa kallade hañ a Brwdgumañ, og seiger honum: Aller Meñ gefa i Fyrstu hid gooda Vijned, og nær þeir taka Olvader ad gioraft, þa þad hid liettara; Eñ þu hefur geimt hid gooda allt til þessa. Þetta er hid fyrsta Jardteikn sem JEsus giorde til Cana i Galilæa. Og hañ opeñberade sijna Dyrd. Og hañs Læresveinar trwdu a hañ.

## Þridia Suñudag epter Þrettanda.

### Collectan.

HErr Almattuge Gud! Vier bidium þig, lijttu a vorar audmiwkar Bæner, og wtrett

rielt Hægre Hond þinar Maktr, oss til Hliiſ-
dar. Fyrer DRottenn, etc.

## Piſtilleñ Rän.

12. Cap.

ELſkuleger Brædur) Vered ecke Sierklooker, gicllded ongvum Illt fyrer Illt. Legged Kapp a ad vera Sidſamer vid alla Menn. Ef mogulegt er, þad þier megned, Þa haf-ed Frid vid alla Menn. Hefned ydar ecke ſialfer, mijner Elſkanleger, helldur giefed Rwm Reide. Þviad ſkrifad er. Mijn er Hefndenn, eg mun Endurgiall-da, ſeger DRottenn. Þar fyrer, ef O-vin þinn hwngrar, þa gief honum Fædu, ef hann þyrſter, gief honum ad drecka. Þvi nær þu giorer þetta, muntu ſafna Gloodum Ellds yfer Hofud honum. Laat eige yferſtijga þig þad Vonda, hell-dur yfervinn þu þad Vonda med Goodu.

## Gudſpialled St. Matth.

8. Cap.

Iþann

J Þañ Tijma.) Og þa ed JEsus gieck ofañ af Fiallenu, fylgde honum margt Foolk epter. Og sia þu; Ad Lijkþraar Madur kom, tilbad hañ og sagde: HErra; Ef þu villt, þa gietur þu mig hreinsad. Og JEsus riette wt Hondena, aahrærde hañ og sagde: Eg vil, Vertu hreirn; Og jafusnart vard hañs Lijkþraa hrein. Og JEsus sagde til hañs: Siaa þu til ad þu seiger þad eigeneinum, helldur far þu og syn þig Kieñemañenum, og offra þeirre Gaafu, Er Moses baud til Vitnisburdar yfer þeim. Eñ þa ed JEsus gieck iñ i Capernaum, kom til hañs Hundrads-Hofdinge nockur, bidiande hañ og sagde: HErra; Pioon miñ liggur Limafallssiwkur heima, og kvelst þwnglega. JEsus sagde til

hañs

hañs: Eg vil koma og lækna hañ.
Og Hundrads-Høfdingeñ svarade
og sagde: HErra; Eg em þess ei
verdugur, ad þu gaanger iñ under
mitt Þak, helldur seig þu eitt Ord,
og mun miñ Pioon heilbrygdur
verda, Þviad eg em Madur Yf-
ervalldenu undergiefeñ, hafande
under mier Strijds-Foolk: Og
nær eg seige þessum, Far, þa fer
hañ, og ødrum, Kom þu, og hañ
kiemur, og Þrææle mijnum, giør
þetta, og hañ giører þad. Eñ þa
ed JEsus heyrde þetta, undradest
hañ, og sagde til þeirra er honum
epterfylgdu: Sañlega seige eg yd-
ur: Ad þvilijka Trw hef eg ecke
funded i Israel. Eñ eg seige yd-
ur: Pad marger munu koma af
Austre og Vestre, og sitia til Bords
med Abraham, Isaac og Jacob i
Rijke Himnaña; Eñ Rijkesins
Syner

Syner munu verda wtrekner i þin ytstu Myrkur, þar sem vera mun Op og Gnystran Tañaña. Og JEsus sagde til Hundradshøfdingians: Gack þu hiedañ, verde þier epter þvi sem þu trwder. Og hañs Pioon vard heill aa þeirre somu Stundu.

## Fioorda Suñudag Epter Prettanda.

### Collectan

HEyr HErra Gud! sem allra best veitst i þvilijkum Haaska og Voda vier erum stadder, Þad ad vier fyrer Holldsins Breyskleika, kuñum ecke ad vera stadfaster aan þiñar sierlegrar Naadar og Hiaalpar. Þvi bidium vier þig nu Naad og Luckn til Lijfs og Saalar, ad hvad hellst vier lijdum vegna vorra Synda, ad vier mættum þad med Poleñmæde lijda, Og med Hiaalp þiñar Naadar yfervinña, Fyrer JEsum Christum, etc.

### Pistelleñ til Romanos 13. Cap.

Elsku-

E Lskuleger Brædur.) Vered ong vum skylduger, nema þad, ad þier elsked hvor añan. Þviad hvor hañ elskar añan, Sa hefur Logmaled uppfyllt. Þviad þar sem segiest, Þu skallt ecke Hoor drygia. Eige Mañ vega. Eige stela. Eige Liwgvitne mæla. Eige gyrnast. Og ef þar er nockud añad Bod ord, þa felst þad i þessum Ordum. Elska skalltu Naunga þiñ, so sem sialfañ þig. Elskañ giorer ecke Naunganum illt. Þar fyrer er nu Elskañ Logmalsins Uppfylling.

## Gudspialled skrifar St.
Matth. 8. Cap.

Og er JEsus stie á Skip, fylgdu hañs Læresveinar honum epter. Og siá þu, ad mikell Ostyrleike giordest i Sioonum, so ad Skiped lá under Afollum, eñ hañ svaf. Og hañs Læresveinar geingu til hañs, vecktu hañ upp, og sögdu. HErra hialpa þu

oss,

oss, vier forgongum. Eñ JEsus sagde til þeirra: Hvad hrædest þier Lijteltrwader? Þa reys hañ upp, hastade a Vindeñ og Siooeñ, og þar vard Logn miked. Eñ Meñerner undrudust, og søgdu: Hvilijkur er þesse? Þviad Vindur og Sioor hlyda honum.

## Fiñta Suñudag epter Þrettanda.

### Collectan.

HEyr HErra Gud, Vier bidium, Vardveit þu þijna Christne med þiñe Naad og Myskun, ad lijka sem hun ecke hefur nockurn aññan uppaa ad vona og treysta nema þig. So laat hana ætijd faa og ødlast þijna Hiaalp og Verndan, Fyrer þiñ, etc.

### Pistilleñ til Col.

3. Cap.

Elskuleger Brædur.) So Jklædest þier nu, so sem Guds Utvallder, Heilager og Elskañleger, Hiart-

Hiartfoolgeñe Myſkunſeme, Goodvilia, Audmykt, Hoogværd, Poleñmæde. Uñlijded hvor añañ, Og ef ad nockur hefur Klogu-Maal moot odrum, þa fyrergiefed þad hvor odrum Jñbyrdes, lijka ſo ſem Chriſtus hañ fyrergaf ydur, ſo ſkulud þier og eirneñ. Eñ framm yfer allt þetta, þa Jklædeſt Kiærleikanum, hvor ad er Band Algiorlegleikans. Og Fridur Guds rijke i ydrum Hiortum, til hvors þier erud kallader, i Einum Lijkama, Og vered Packlaater. Laated Chriſti Ord noogslega byggia medal ydar i allre Vitſku. Læred og amiñed ydur ſialfa, med Pſalmum, Lof-Saungum og Andlegum liwfflegum Kvædum, Og ſynged DRottne i ydrum Hiortum. Og allt hvad þier giored med Ord og Verk, þad giored allt i Nafne DRotteñs JEſu, Og þacked Gude og Fodur fyrer hañ.

## Gudſpialled Matth.

13. Cap.

JPañ

J Þañ Tijma.) Adra Epter-
lijking lagde JEsus fram fyr
er þa og sagde. Himnarij-
ke er lijkt þeim Mañe, hvor ed saade
goodu Sæde i Akur siñ. Eñ þa
Meñ svaafu, Kom Ovinur hañs og
saade Jllgrese med i bland Hveit-
enu, og gieck i burt. Eñ er Grased
spratt upp og bar Avøxst, þa Aug-
lysteſt og Jllgresed. Eñ Þioonustu-
meñerner geingu til Hwsfødursins
og søgdu honum. HErra, saader
þu ecke goodu Sæde i Akur þiñ,
Hvadañ kiemur honum þa Jllgres
ed? Og hañ sagde til þeirra. Fiand-
madureñ hefur þad giort. Þioon-
ustumeñerner søgdu þa. Villtu ad
vier førum og wtlesium þad? Og
hañ sagde: Nei, so ad þier uppræt-
ed eige Hveited under eins, Nær
þier wtlesed Jllgresed. Laated hv-
orttveggia vaxa allt til Kornskurd-
arens,

arens, og at Kornskieru-Tijmanum skal eg segia til Kornskurdar-Mañaña. Leseð fyrst samañ Illgreseð, og bindeð þad samañ i Bindene til ad breña þvi. Eñ Hveitenu samañ safneð i mijna Kornhløðu.

## Siotta Suñudag epter Prettanda.

Collecta, Pistill og Gudspiall, hið sama, og 27. Suñudag epter Trinitatis.

## A Kyndel-Messu.

### Collectan.

Eilijfe, Almaattuge Gud, Vier bidium audmiwklega þitt Dijrdar-Velldе, ad so sem þiñ Eingieteñ Sonur var a þessum Deige i Musterenu Offradur og syndur, til ad uppfylla Løgmaaled, So laat oss jafnañ með hreinu Hiarta fyrer þitt Auglit koma. Fyrer þiñ, etc.

### Pistilleñ Malachiæ 3. Cap.

Þetta

ÞEtta seiger DRotteñ Gud.) Siaa þu, Eg mun senda miñ Engel, þañ er tilreida skal Veigeñ fyrer miñnu Auglite. Og strax mun koma saa Drottnareñ til sijns Musteris, ad hvorium þier spyried, og Eingill Saattmaalans, hvorn þier gyrnest. Siaa, hañ kiemur seiger DRotteñ Allsheriar. Eñ hvor mun þola hañs Tilkomu-Dag? Eda hvor mun gieta stadest, þa hañ mun byrtast? Þviad hañ er so sem glooande Elldur eins Gull-Smids, og so sem Saapa Þvotta-Kveña. Hañ mun sitia og brǽda, og Silfred hreinsa, Og hañ mun hreinsa og klaar giora Born Levi so sem Silfur. So ad þa munu þeir DRottne Helge-Offur fǽra i Riettlǽtenu. Og þa mun DRottne vel þocknast þad Helge-Offur Juda og Jerusalem, Lijka so sem adur Fordum, og fyrer morgum Arum.

## Gudspialled skrifar Luc.

2. Cap.

E                A Þeim

Heim Tijma.) Pa Dag-
ar heñar Hreinsunar full-
nuduſt epter Moyſis Løg-
um, høfdu þau hañ til Jeruſalem,
uppaa þad þau a Hendur fæle hañ
DRottne, So ſem ſkrifad er i Løg-
maale DROtteñs, Ad allt hvad
Karlkyns var, þad er fyrſt opnade
ſiñar Moodur-Kvid, þa ſkyllde kall-
aſt DRottne Helgad. Og ad þau
giæfe Offred epter þvi ſem ſeigeſt i
Løgmaale DRotteñs, Tvær Tur-
til-Dwfur, eda Tvo Dwfu-Unga.
Og ſiaa, ad Madur var þar i Jeru-
ſalem, ſaa ed Simeon hiet, og þeſſe
Mañ var Riettlaatur og Gud-
hræddur, Bijdande epter Huggun
Jſraels, og Heilagur Ande var med
honum. Simeon hafde og And-
ſvar feinged af Heiløgum Anda, ad
hañ ſkyllde ecke Daudañ ſiaa, nema
hañ ſæe aadur fyrre Chriſt DRott-
eñs.

eñs. Og hañ kom af Andans Tilladan i Mustered, Og þa Foreldrarner höfdu Barned JEsum i Mustered, og giördu fyrer hönum epter Sidvenin Lagaña, og hañ took hañ þa uppaa sijna Armlegge, Lofade Gud og sagde. DRottenn, Laat nu þiñ Þioon i Fride fara, epter þvi sem þu hefur sagt. Þvi ad mijn Augu hafa sied þitt Hiaalp Raad, þad þu tilreidder fyrer Auglite allra Þiooda. Eitt Lioos til Uppbyrtingar heidnum Þioodum, Og til Dyrdar þijns Foolks Jsrael.

## Fyrsta Suñudag i Niju Vikna Föstu.

### Collectan.

Almaattugur, Eilijfur Gud, Vier bidium! Heyr Milldelega Bæner þijns Foolks, Ad vier sem maklega erum Sökum vorra Synda hirter, mættum Saker þijns Dyrdarfulla Nafns, Myskunsamlega Frelsast. Fyrer DRottenn vorn, etc.

Kiærer Brædur ) Vited þier ecke
ad þeir sem Skeided hlaupa, þad
þeir aller hlaupa, En Eirn er sa ed
Hnossed tekur? Hlauped nu og svo ad
þier hondled þad. En hvor sem slæst, han
helldur sig fra ollu. Og þeir ad sonnu,
uppa þad, þeir odlest Forgeingelega Ko-
ronu, en vier Oforgeingelega. En eg hle-
ip eige so sem uppa þad Ovissa, Eg slæ
ecke so sem sa i Vinden slær. helldur þiaa
eg min Lijkama, og læt han Præl vera, so
ad eg predike þad eige odrum, og verde
sialfur Rækur. En eg vil eige dylia fyr-
er ydur gooder Brædur, þad ad vorer
Forfedur voru aller under Skyenu, og
aller geingu þeir yfer Hafed, og aller voru
þeir skijrder af Moyse, i Skyenu og i
Sioonum. Og aller hafa þeir neytt hin-
ar somu Andlegrar Fædu, og aller hafa
þeir hin sama Andlega Dryck drucked.
Þeir druncku og af þeirre Andlegu Hellu,
sem þeim medfylgde. Hvor Hella ad var
... Christus.

Christus. Eñ Gud hafde ecke a flestum af þeim Velþocknan, þvi eru þeir nidurslegner i Eydemørkeñe.

## Gudspialled St. Matth. 20. Cap.

Þañ Tijma. Sagde JEsus til siña Lærefveina, þessa Eptlijking.) Himnarijke er lijkt einum Hws-Fodur, sem wtgieck sneïma Morguns, Verka-Meñ ad leigia i siñ Vijn-Gard. Eñ ad giordum Samninge vid Verka-Meñena, ad Daglegu Penings-Gialllde, sende hañ þa i siñ Vijn-Gard. Og nærre Pridiu Stundu gieck hañ wt, og leit adra Idjulausa standa a Torgeñu, og sagde til þeirra: Fared þier og so i Vijn-Gardeñ, og hvad Riettvijst er mun eg giefa ydur, og þeir geingu burt þaangad. Og hañ gieck eñ wt apt ur uñ Siøttu og Nijundu Stund,

og giorde slijkt hid sama. Nærre Elleftu Stundu gieck hañ wt, og fañ eñ adra standa Jdjulausa, og sagde til þeirra: Hvar fyrer stand-ed þier hier allañ Dag Jdjulaus-er? Þeir søgdu til hañs: Þviad eingeñ hefur leigt oß. Hañ seiger til þeirra: Fared þier og i miñ Vijn Gard, og hvad Riettvijst er skulud þier faa. Eñ þa Kvølld var kom-ed, sagde Herrañ Vijn-Gardsins til sijns Raadsmañs. Kalla þu Verkmeñena, og gialld þeim Verd kauped, og tak til fraa hinum Sein-ustu, allt til hiña Fyrstu. Þa ko-mu þeir sem nærre Elleftu Stun-du leigder voru, og medtook hvør þeirra siñ Pening. Eñ hiner sem Fyrster komu, þeir þeinktu ad þeir mundu faa meira, og hvør þeirra medtook siñ Pening. Og þa er þeir høfdu hañ medteked, mogludu

þeir

þeir at moote Hws-Fodurnum, og sögdu: Þesser enn Seinustu hafa Eina Stund erfidad, og þu giörder þa jafna vid oss, sem bored höfum Hita og Þwnga Dagsins. Eñ hañ svarade og sagde til Eins þeirra: Vinur, Eige giöre eg þier O-riett. Ertu ecke sáttur orden vid mig um Eirn Pening? Taktu hvad þitt er, og far i burt, eñ þessum hinum Seinasta, vil eg giefa so sem þier. Eda lofast mier ecke ad giöra af mijnu hvad eg vil? Eda ertu þar fyrer Raungeygdur, þo ad eg sie Goodgiarn? So verda Sein aster hiner Fyrstu, og Fyrster hiner Seinustu. Þviad marger eru Kallader, Eñ fáer Utvalder.

Aũañ Suñudag i Niju-Vikna Fostu.

HErra HErra Gud! þu sem sier, ad vier ecke höfum Traust a vockrum vorum Verkum, Mætte edur Megne. Veit þu oss Myskunsamlega, ad vier mættum verndader verda fra øllum mootstædelegum Hlutum, Andlegum og Lijkamlegum, fyrer þiina Naadarsamlega Hlijfd, So sem þu hlijfder St. Paale Postula Kieñefødur Heideña Pioda. Fyrer, etc.

## Pistilleñ 2. Cor. 12.

EG þecke Mañ i Christo fyrer Fioortan Aarum, (var hañ i Lijkamanum, þad veit eg eige, Eda vár hañ fyrer utañ Lijkama, veit eg og eige, Gud veit þad,) Sa same var ricktur allt upp i Pridia Himen, og eg þeckie glögt þañ Mañ, (hvort hañ var i Lijkama, edur utañ Lijkama, veit eg eige, Gud veit þad) Hañ vard uppricktur i Paradijs, og heyrde Owtrædañleg Ord, þau sem eingeñ Madur fær talad. Af þessu vil eg mier hroosa, Eñ af sialfum mier vil eg mier ecke hroosa, nema af mijnum Breyskleika. Og þo eg villde mier hroosa, giørda eg þad ecke Fiflslega, þviad eg vil seigia

Sañ-

Sañleikañ. Eñ eg sporna vid þvi þar fyrer, So ad eingeñ hallde mig æþra, Eñ so sem hañ aa mier sier, Eda af mier heyrer. Og so ad eg stære mig ecke af Mikeleik þessara Opeñberinga, er mier giefeñ Fleinn i Hollded, Andskotans Eingell, hvor ad mig med Knefum slaae, uppaa þad eg stære mig ei. Uñ þad hefe eg DRotteñ Þrisvar beded, þad hañ vike burt fraa mier. Og hañ sagde til mijn: Laat þier nægiast mijna Naad, þvi miñ Kraptur er i Breyskum mattugur. Fyrer þvi vil eg sem fegnastur hroosa mier af mijnum Breyskleika, So ad Kraptur Christs bygge medur mier.

## Gudspialled St. Luc.

8. Cap.

Þañ Tijma.) Og þa ed margt Foolk var samañkomed, og þad dreyf til hañs wr Stødunum, Sagde hañ i Eptirlijkingu. Saa gieck wt sem saade, ad saa Sæde sijnu. Og þa hañ

 saade,

saade, fiell sumt utañ hiaa Veigen-
um, vard Footum troded, og Fug-
lar Loptsins aatu þad. Og sumt
fiell a Hellu, og nær ed þad spratt
upp, visnade þad, af þvi ad þad
hafde eige Vökvañ. Og sumt fiell
a medal Þyrna, og Þyrnarner
spruttu upp med og kiæfdu þad nid-
ur. Og sumt fiell i gooda Jörd,
og þad vöx upp og bar Hundrad-
falldañ Avöxt. Þa ed hañ sagde
þetta, Kallade hañ: Hvör Eyru
hefur ad heyra, Heyre hañ. Eñ
hañs Læresveinar spurdu hañ ad,
Hvör ed være þesse Epterlijking.
Eñ hañ sagde: Ydur er nũt ad vi-
ta Leynda Dooma Guds Rijkis,
Eñ þeim ödrum i Epterlijkingum,
So ad siaande þa siae þeir eige,
Og aaheyrande þa skilie þier þad
ecke. Eñ þesse er Epterlijkingeñ.
Sæded er Guds Ord. Eñ hiner
vid

vid Veigeñ, eru þeir sem heyra þad, eñ epter þad kiemur Diofullen og tekur burt Orded wr þeirra Hiort- um, So ad þeir skule ecke trwa og verda Hiaalpleger. Eñ þeir a Helluñe eru þeir, Sem medtaka Orded med Fognude, þa þeir heyra þad, og þesser hafa ecke Root, hvør- ier um Stundarsaker trwa, og a Freistingar-Tijmanum falla þeir fra. Eñ þad sem fiell a millum Pyrnaña, eru þeir, sem þad heyra, og velkiast i Sorgum, Audæfum og Gyrndum þessa Lijfs, kiefiast og fæ ra aungvañ Avoxt. Eñ þad sem i gooda Jord fiell, Eru þeir sem heyra Orded, og behallda þvi i Goodu og Sidsømu Hiarta, Og færa Avoxt i Poleñmæde.



Suñudageñ i Føstu Jñgang.

im Toolf sem Judas hiet, þa er hañ
hafde nu til sijn teked Flock Mañā,
og Þienara Kieñemaña Hofdingiaña og Phariseaña, kom hañ þangad, og med hønum Flockur mikell,
med Blijsum, Lompum, Sverdum, Støngum og Vopnum, wtsender
af Kieñemaña-Hofdingium, Skriptlærdum og Ølldungum, Og hañ
gieck fyrer þeim.

Sem JEsus visse nu allt hvad
yfer hañ ætte ad koma, Gieck hañ
fram og sagde til þeirra: Ad hvørium leited þier? Þeir svørudu hønum, ad JEsu af Nazareth. JEsus sagde til þeirra: Eg em hañ.
Eñ Judas sa er ed sveik hañ, stood
eirneñ hia þeim, Eñ sem JEsus
sagde til þeirra, Eg em hañ, Hørfudu þeir Bak aptur, og duttu til
Jardar. Hañ spurde þa eñ Einu
Siñe, ad hvørium leited þier? Eñ
þeir

þeir ſøgdu, ad JEſu af Nazareth.
JEſus ſvarade: Eg ſagda ydur þad,
Eg em hañ. Þar fyrer, Ef þier
leited ad mier, þa laated þeſſa i burt
fara. So ad uppfylltest þad Ord,
hvad hañ hafde ſagt, Ad Aungvum
Glatade Eg Af Þeim Sem Þu
Gafſt Mier. (Joh. 17.)
Eñ Svikareñ hafde giefed þeim
ſameigeñlegt Teikn, og ſagt: Hv-
orn hellſt eg kyſſe, ſa er þad, grijped
hañ og leided i burt vareygdarlega.
Og þa hañ kom, nalgadeſt hañ
JEſum ad hañ kyſte hañ, og jafn-
ſnart gieck hañ til hañs, og ſagde:
Heill ſiertu Rabbi Rabbi, og kyſte
hañ. Eñ JEſus ſagde til hañs:
Vinur; Hvar fyrer ertu komeñ?
Juda; Svijkur þu Mañſins Son
med Koſſe? Þa geingu þeir þang-
ad, og løgdu ſijnar Hendur a JE-
ſum og gripu hañ. Eñ þa ed þeir

sem hiar honum voru saan hvad verda villde, sogdu þeir til hans: HErra; Skulum vier slaa med Sverde? Og slaa; Ad eirn af þeim sem med JEsu voru og þar stodu, Simon Petur, hafde eitt Sverd, riette wt Hendena, og rieckte þvi og sloo til Presta Hofdingians Þienara, og hioo af honum hans hid hægra Eyra. Og sa Þienare hiet Malchus.

Eñ JEsus svarade og sagde: Leifed þeim ad giøra eñ frekar, og sagde til Peturs: Sticktu þijnu Sverde i Slijdrer, þviad hvør ad Sverded tekur, sa mun fyrer Sverde farast. Eda meinar þu ad eg kuñe ecke nu ad bidia miñ Fødur þad hañ sende mier meir eñ Tolf Legion Eingla? Skal eg ecke drecka hañ Kaleik hvorn ed miñ Fader hefur mier giefed? Eñ hvorneñ

skyldu

skylldu þa Ritningarnar uppfylld-
ar verda? Þvi þad hlijtur so ad skie.
Og hañ aahrærde hañs Eyra, og
læknade hañ.
A þeim Tijma svarade JEsus
og sagde til Foolksins, og þeirra
Presta-Hofdingia, og Hofuds-
Maña Musteresins og Olldunga-
ña, sem til hañs voru komner: Þi-
er erud so sem til añars Ræningia
wt geingner med Sverdum og Sta
unguum ad grijpa mig. Daglega
hefe eg hiaa ydur vered, seted og ki-
ent i Musterenu, og þier hafed auug
vaar Hendur aa mig lagt, og ecke
griped mig; Helldur er þetta ydar
Tijme og Makt Myrkrañа, so ad
Ritningarnar uppfylldust. Eñ
allt þetta er skied, so ad uppfyllest
Ritningar Spaamañaña. Þa
forlietu hañ aller Læresveinarner,
Og flijdu. Og þar var Eirn Ung-

ur Mañ, ſa ed hønum epterfylgde, hañ var med Lijne klæddur yfer bert Hørund, Og Ungmeñe gripu hañ. Eñ hañ ſnarade Lijn-Klædenu, og flyde nakeñ i burt fraa þeim.

Eñ Flockureñ og hiñ ypparſte Høfuds-Madur, og Pienarar Gyd ingaña gripu JEſum og bundu hañ, Og leiddu hañ fyrſt burt til Hañam; Sa var Fader Konu Caiphæ, Hvor ed þa var þeſs Ars Æðſte Preſtur; Og þeir burtleiddu JEſum faangeñ til Caipham Kieñemaña Hofdingia, Eñ Caiphas var ſa ſem Gydingum gaf þad Raad, ad betur fære þad Eirn Madur dæe fyrer Foolked.

Og þeir iñleiddu hañ i Hws þeſs ypparſta Preſts, þar ed med hønum aller Kieñemaña Hofdingiar, Skriftlærder og Ølldungar voru ſamañkomner. Eñ Simon Pet-rus

rus fylgde JEsu aaleingdar, allt i Forstofu Kieñemaña Hofdingians, og eirn añar Læresveirn, sa same Lærefveirn var kuñugur Kieñemaña Hofdingianum, og giecк iñ med JEsu i For-Stofu Kieñemaña Hofdingians; Eñ Petur stood þar wte fyrer Dyrunum. Þa gieck wt sa Añar Lærefveirn, sem Kieñemaña Hofdingianum var kuñugur, og talade vid Dyraverdslu Koñuna, og leidde Petrum iñ leingra i For-Stofu Kieñemaña Hofdingians. Og hañ gieck iñ, Þviad Þienararner hofdu Elld kveiktañ i midre For-Stofuñe og settst til samans, Eñ Petur sette sig aa millum þeirra og vermde sig vid Logañ, ad hañ sæe hvør Ender þar aa yrde. Eñ Petur sat utar i For-Stofuñe, og þar hañ var fram betur i For-Stofuñe, kom ein af Ambaattum

Kieñemaña Hofdingians, og þa
hun leit Petrum sitia vid Logañ og
verma sig, leit hun til hañs og star-
de a hañ, gieck til hañs og sagde:
Hvort ert þu og eirn af þeß Mañs
Lærесveinum? Og þu varst med
JEsu þeim Galilæiska af Nazar-
eth. Eñ hañ Afneitade honum
fyrer øllum, segiande: Kona, Ei
er eg, Eg þecke hañ eige, Og ei veit
eg hvad þu segier: Og hañ gieck wt
i For-Dyred, og Haneñ gool. Eñ
Þrælarner og Þienararner stoodu
sem giort hofdu Kola-Elld, og verm
du sig, þviad Kulde var, Petur sto-
od þar hiaa þeim og vermde sig. Eñ
Kieñemaña Hofdingeñ spurde JE-
sum þa ad um hañs Lærеsveina og
hañs Kieñingu. Og JEsus svar-
ade honum: Eg hefe opeñberlega
talad i Heimenum, Eg hefe og med
jafnade kient i Samkundu Hws-
um,

unt, og i Musterenu þar ed Gyding-
ar allstadar ad koma til samans, og
eckert hef eg i Leynum talad, hvad
spyr þu mig ad þessu? Spyr þu þa
þar ad sem heyrt hafa hvad eg hefe
talad til þeirra, Siaa þu; Þeir hi-
nu sömu vita hvad eg hefe sagt. Eñ
sem hañ talade þetta, þa gaf eirn
Þienarañа sem þar stood hiaa, høn-
um eirn Kiñ Hest, og sagde: Skall
tu so svara Biskupenum? JEsus
svarade: Hafe eg illa talad þa be-
vijsa þad, ad þad sie oriett, Eñ hafe
eg rett sagt, hvar fyrer slær þu mig?
Og Hañas sende hañ bundeñ til Cai
phas Kieñemaña Høfdingia.
Eñ Ambaatteñ þar hun saa Pet
rum, took hun aptur til ad segia þe-
im sem þar hiaa stoodu: Þesse er
eirn af þeim. Eñ sem hañ gieck wt
um Dyrnar, leit hañ ein Añur Am
baatt og sagde til þeirra sem þar vo-

ru: Þesse var og med JEsu af Nazareth. Og litlu sijdar þar epter, sa hañ eirn Añar og sagde: Þu ert og eirn af þeim. Og Simon Petrus stood þar og vermde sig, Þa tølu þeir til hañs: Ertu af hañs Lærefveinum? Og i Añad Siñ neitade Petur aptur med Eide og sagde: Madur, Eige em eg, ecke þeck. eg þañ Mañ.

Eñ þeir Ædstu Prestar og Øllungar, og allt Raaded leitudu Lingvitna i giegn JEsu, so ad þeir giætte honum i Hel komed, og fundu ecke. Og þo marger Lingvottar geinge þar fram ad, þa fundu þeir eckert, Þviad marger baaru Fals-Vitne i moote honum, Eñ þeirra Vitnisburder voru ecke samhliooda. Eñ ad Sijdustu stoodu upp og geingu fram nockrer Tveir Fals-Vottar, og baaru Lingvitne i moote honum,

um, og søgdu: Vier høfum heyrt hañ segia, Eg kañ og vil nidurbrioota þetta Mustere Guds sem med Hondum er giort, og aa Þremur Døgum uppbyggia Eitt Añad þad eier med Hondum giort, Eñ þeirra Vitnisburder urdu eñ þa ecke samhlioода. Saa Ædste Prestur stood þa upp midt aa millum þeirra, Spurde JEsum ad, og sagde til hañs. Svarar þu aungvu? Hvad vitna þesser aa moote þier? Eñ JEsus þagde og svarade aungvu. Þa ansade eñ aptur sa Ædste Prestur, Spurde hañ ad; og sagde til hañs: Ertu Christur Sonur hins Blessada, Eg sære þig vid Lifanda Gud, ad þu segier oss ef þu ert Christur Sonur Guds? JEsus sagde til hañs: Þu sagder þad, Eg em. Eñ þo segie eg ydur, Hier epter munud þier siaa Mañsins Son sitia til

Hægre

Hægre Handar Kraptarens, og komanda i Skyum Himens. Þa Reif Kieñemaña-Høfdingeñ sijn Klæde i sundur og sagde: Hañ Gud lastar. Hvad þurfum vier nu framar Vitnaña vid? Siaa, Þier heyrdud nu siaalfer hañs Gudlastan. Hvad virdest ydur? Eñ þeir Fordæmdu hañ aller, Svörudu og søgdu: Hañ er Daudans sekur.

Og litlum Tijma þar epter, nær Eirnre Stundu, styrkte nockur añar bad, og sagde: Ad søñu var og þesse med hønum, Þvi hañ er Eirn Galilæare. Og aptur geingu þeir ad er hiaa stoodu, Og søgdu til Peturs: Sañarlega ertu af þeim, þvi ad þitt Tungumaal er samhliooda, og opeñberar þig. Þa sagde Eirn af Kieñemaña Høfdingians-Þienurum, Frænde þess sem Petur hioo af Eyrad. Saa eg þig ecke i Grasgard.

gardenum med hønum? Pa neitade Petur þvi eñ aptur, Og sagde: Madur, Eige veit eg hvad þu seger. Pa took hañ til ad Formæla sier, og Sveria. Eige þecke eg þañ Mañ, um hvørn þier taled. Og jafnsnart er hañ nu talade eñ framar, Gool Haneñ i Añad Siñ, Og DRotteñ snere sier vid, Og leit til Peturs, og Petur mynteſt Ordaña JEsu, Er hañ hafde sagt til hañs, aadur eñ Haneñ galar Tvisvar, muntu afneita mier Þrisvar, Og hañ gieck wt og Griet Beisklega.

Pa tooku Nockrer ad spijta aa hañ, i hañs Asioonu, Og børdu hañ med Knefum, Eñ Þienararner, og þeir Meñ sem hielldu JEsu, Daarudu hañ og sloou, og birgdu hañs Asioonu, og sloou hañ med Knefum, Spurdu hañ og søgdu: Spaa þu oss, Hvør Er Saa Þig Sloo? Og

margt

margt añad Hardvglegt sögdu þeir vid hañ.

Og strax um̃ Morguneñ er Dagur var, Sofnuduft samañ og hielldu Rꝏdstefnu aller Ædstu Prestar med Olldungum Lijdsins og Skriptlærdum, og þar ad auk øllu Rꝏdenu, moote JEsu, So ad þeir giæte hönum i Hel komed. Og leiddu hañ upp fyrer sitt Rꝏd, Og sögdu: Ef þu ert Christur, seig oss þad? Og hañ sagde til þeirra: Ef eg segie ydur þad, þa trwed þier þvi eige, Eñ ef eg spyr ydur, Þa svared þier mier eige, Eda lꝏted mig lausañ. Nu hiedañ i frꝏ mun̄ Mañsens Sonur sitia til Hægre Handar Guds Kraptar. Eñ þeir sögdu aller: Ertu þa Guds Sonur? Hañ sagde þa til þeirra: Þier seged þad, Eg em hañ. Þa sögdu þeir: Hvad þurfum vier nu Vitnes

nesburdeñ leingur, Vier sialfer heyrdum þad af hañs Muñe. Og allur sa þeirra Skare stood upp og bundu JEsum, og leiddu hañ i burt fra Caiphas og i Pijng-Hwsed, og Ofurselldu hañ Lands-Doomar anum Pontio Pilato, Eñ þad var sneima Morguns.

Þa er Judas sa er hañ hafde forraaded, sa þad hañ var til Dauda dæmdur, Ydradest hañ þess, og færde aptur þeim Ædstu Prestum og Olldungum þa Priatijger Silfur-Peninga, og sagde: Syndgad hefe eg, ad eg Forried Saklaust Blood, Eñ þeir sögdu: Hvad kiemur þad vid oss? Sia þu þar fyrer. Og hañ snarade þeim Silfur-Peningum i Mustered, skundade þadañ, gieck i burt og heingde sialfañ sig. Eñ þeir Ædstu Prestar tooku Silfur-Peningana, og sögdu:

Eige

Eige hæfer ad vier lætum þa i Gu-
ds-Kistuna, Þviad þad er Bloods-
Verd. Eñ þeir hielldu eitt Raad,
og keyptu med þeim Leirsmids-Ak-
ur, Framande Moñum til Grept-
runar. Fyrer þad, er saa Akur
kalladur Bloods-Akur, allt til þessa
Dags. Þa er uppfyllt hvad sagt
er fyrer Jeremiam Spaamañ, seg-
iande: Þeir tooku þa Þriatijger
Silfur-Peninga, er hiñ Sellde var
med betaladur, hvørn þeir keyptu
af Jsraels Børnum, og hafa giefed
þa fyrer Leirkiera-Smids-Akur,
Epter þvi sem DRottenñ hafde mier
boded.

Og Høfud-Prestarner og Olld-
ungarner, geingu ei sialfer iñ i Þij-
ng-Hwsed, ad þeir saurgudust eige,
helldur so þeir mættu neyta Pask-
aña. Pilatus gieck þa wt til þeir-
ra, og sagde: Hvøria Akiæru færed
þier

hier i glegn þessum Mañe? Þeir svörudu, Og sögdu til hañs: Ef þesse være ei Jllrædis-Madur, þa hefdum vier eige i Hendur feinged hier hañ. Þa sagde Pilatus til þeirra: Taked þier hañ þa og dæmed epter ydrum Logum. Gyding-ar sögdu þa til hañs: Oss Leifest ecke ad Lijflaata nockurn, So ad þad Orded JEsu uppfylltest, er hañ sag-de: Teiknande þar med, hvörium Dauda hañ skyllde deya. Eñ JE-sus stood frame fyrer Lands-Doom aranum. Eñ þeir tooku ad aaklaga hañ, og sögdu: Þeñañ fiñum vier ad hañ fraxsnijr Foolkenu, og fyr-erbijdur Skatt ad giefa Keysaran-um, Og segier sig ad vera Kongeñ Christum. Þa gieck og i Aññad Siñ iñ Lands-Doomareñ Pilat-us, Kallade JEsum, og sagde til ha-ñs: Ertu Kongur Gydinga? JE-

sus

ſus ſvarade: Talar þu þad af ſiaalf-
um þier, Eda hafa adrer ſagt þier
þad um̃ mig? Þa ſvarade Pilat-
us: Er eg nockud Gydingur? Þijn
Þiood og Kieñemaña-Hofdingiar
Ofurſeldu þig mier, Hvad hefur þu
giort? JEſus ſvarade: Mitt Rij-
ke er ei af þeſſum Heime, Ef ad mitt
Rijke være af þeſſum Heime, Þa
mundu mijner Þienarar ſtrijda
þar fyrer, So ad eg Ofurſelldeſt ei
Gydingum, Eñ nu er mitt Rijke
eige þadañ. Þa ſagde Pilatus
til hañs: Ertu þo ſamt Kongur?
JEſus ſvarade, og ſagde til hañs:
Þu ſegier þad, Eg em og Kongur,
Til þeſs er eg fæddur og i Heimeñ
komeñ, ad eg bere Vitne Sañleik-
anum, og hver hañ er af Sañleik-
anum, Sa heyrer mijna Rodd.
Pilatus ſagde til hañs: Hvad er
Sañleikureñ? Og þa hañ hafde
þetta

þetta sagt, Gieck hañ wt aptur til Gydinga, og sagde til þeirra Yppurstu Presta og til Lijdsins. Aungva Sök finn eg med þessum Mañe. Og Höfud-Prestarner aaklogudu hañ Hardlega. Og sem hañ aaklagadest af þeim Ædstu Prestum og Alldungum, svarade hañ aungvu. Pilatus spurde hañ aptur ad, Og sagde til hañs: Svarar þu aungvu? Heyrer þu ecke? Sia, hvörsu hardlega þeir aaklaga þig. Eñ JEsus svarade honum aungvu framar til nockurs Ords, So ad Lands-Doomareñ undradest þad nærsta. Eñ þeir voru þess aakafare, og sögdu. Hañ hefur uppæst Foolked, med þvi hañ hefur kient aa öllu Gydinga-Lande, og hefur tilteked i Galilæa, Allt hijngad. Eñ er Pilatus heyrde Galilæam nefnda, Spurde hañ ad, hvört hañ

være

være Eirn Galilæare, Og er hañ
fornam ad hañ var under Herodis
Vellde, Sende hañ hañ burt til
Herodem, sem eirneñ var a þeim
sømu Døgum i Jerusalem. Eñ
er Herodes sa JEsum, vard hañ
næsta gladur, þviad hañ hafde fyr-
er løngu girnst ad sia hañ, af þvi
hañ hafde margt heyrt af hønum,
og hañ vænte ad hañ munde sia
Eitt Teikn af hønum, og adspurde
hañ a marga Vega, eñ hañ svar-
ade hønum øngvu. Eñ Kieñema-
ña Høfdingiar og Skriptlærder,
stoodu og asøkudu hañ hardlega,
Eñ Herodes med sijnum Stridz-
Møñum Forsmaade hañ og spott-
ade, færde hañ i hvijtt Fat, og sende
hañ aptur til Pilatum. Og a
þeim Deige urdu þeir Pilatus og
Herodes Viner aptur, þviad adur
voru þeir Oviner sijn a mille. Eñ

Eñ Pilatus samañkallade Presta Hofdingia og Hofuds-Meñ og Lijdeñ, Og sagde til þeirra: Þier hafed þeñañ Mañ til mijn haft, so sem hañ er fraasnijr Foolkenu, og siaaed, Eg hefe yferheyrt hañ hier fyrer ydur, Og aa þessum Mañe fiñ eg aungva af þeim Sokum, þar uñ þier klaged hañ, og ei helldur Herodes, þvi ad eg sende ydur til hañs; Og siaaed, Eckert er af honum giort, þad Dauda sie verdugt, fyrer þvi vil eg refsa honum og laata laußañ.

Eñ aa Haatijdar-Degenum bla ut Lands-Doomareñ epter Veniu, Foolkenu lausañ ad laata eirn Bandingia, hvorn hellst þeir villdu, og epter hvorium þeir beiddust. Eñ þa hafde hañ Eirn Nafnkiendañ Bandingia, framar odrum, sa ed Barrabas hiet, med Upphlaups-

M Meñ

Møñum bundeñ, hvørter i Upphla-
upenu høfdu Vijg uñed. Sem
þeir voru til samans komner, sagde
Pilatus til þeirra: Pad er ydar
Sidvenia, ad eg giefe ydur eirn la-
usañ a Paaskum, og Foolked kall-
ade upp, og took til ad bidia, ad hañ
villde giøra sem hañ være vant.
Eñ Pilatus svarade þeim og sagde:
Vilied þier ad eg giefe ydur nu Gyd-
inga-Kongeñ lausañ? Hvørn vili-
ed þier ad eg giefe ydur lausañ Bar-
rabam eda JEsum, sem kallast
Christur, (þviad hañ visse vel ad
Høfud-Prestarner høfdu af Øfund
Øfursellt hañ.) Og sem hañ sat
a Doom-Stoolnum, sende hañs
Hws Frw til hañs, og liet segia hø-
num: Haf þu eckert ad giøra med
þañ Riettlaata, Pviad, margt hefe
eg lided i Dag i Draumnum fyrer
hañ. Eñ þeir Ædstu Prestar og
Øld-

Ølldungar riedu Foolkenu og eggiudu, ad þad skyllde bidia ad hañ giæfe þeim miklu helldur Barrabam lausañ, Eñ JEsum skylldu þeir deyda. Þa svarade Lands-Doomareñ Pilatus, og sagde til þeirra: Hvorn af þessum Tveimur villed þier ad eg láte ydur lausañ? Þa kallade upp allur Hoopureñ, og sagde: Tak burt þeñañ, Og gief oss Barrabam lausañ. Þa svarade aptur Pilatus, Kallade og sagde til þeirra, Og villde JEsum lausañ láta: Hvad villed þier þa ad eg skule giora vid JEsum, af hvørium sagt er, Ad hañ sie Christur Kongur Gydinga? Eñ þeir kølludu þa aller upp, Og søgdu: Krossfestest hañ, Krossfestu hañ. Þa sagde Lands-Doomareñ eñ i Pridia Siñ til þeirra: Hvad Illt hefur þa þesse giort? Aungva Dauda-Søk fiñ

eg med hønum, fyrer þvi vil eg Heg-
na hønum, og lauta hañ lausañ. Eñ
þeir kølludu þvi meir, Seglande:
Krossfesteſt hañ, Krossfestu hañ.
Og aller kølludu aptur, Seglande:
Eige þeñañ helldur Barrabam.
Eñ Barrabas var eirn Ræninge:
Hvør ed var fyrer Upphlaup og
Mañslag, er ſkied var i Borgeñe,
iñſettur i Fangelſe. Og þeir ſto-
odu þvi faſtara þar aa med miklum
Hlioodum, Oſkande þad ad hañ yr-
de Krossfeſtur; Og þeirra Hliood
og Hofud-Preſtaña tooku yfer.

Pa took Pilatus JEſum og
Hwdſtrykte hañ, Eñ Striids-Meñ
Lands-Doomarans tooku hañ, og
leiddu hañ med ſier iñ i Þijnghwſ-
ed, kølludu ſamañ og ſofnudu ad
hønum øllu Lidenu, og afklæddu
hañ, og færdu hañ i Eina Purpu-
ra Kaapu, og fliettudu eina Coro-
nu

nu af Þyrnum, og settu hana a
hans Hofud, og Reyr i hŭs Hægre
Hond, og beigdu Knie fyrer honum,
spiodu han og tooku ad heilsa hon-
um, Og sogdu: Heill Siertu Kon-
gur Gydinga! Og gaafu honum
Pustra og Hræktu a han, Tooku
Reyren og børdu um hans Hofud,
Fiellu a Knie og tilbadu han.
Þa gieck Pilatus wt aptur og sagde
til þeirra: Siaaed eg leide han nu
wt hijngad til ydar, So ad þier vit-
ed þad eg fin aungva Søk med hon-
um. So gieck IEsus wt, beran-
de Þyrne-Coronu og Purpura-
Klæded, Og han sagde til þeirra:
Siaaed Mañen. Þa er Kienema
nā Hofdingiarner og Þienararner
saau han, Kolludu þeir og sogdu:
Krossfestu, Krossfestu. Pilatus
sagde til þeirra: Taked þier han og
Krossfested, þviad eg fin aungva

Søk med honum. Pa svorudu
honum Gydingar: Vier hofum
Løg og epter vorum Løgum at hañ
ad deya, þviad hañ giørde sig siaalf-
añ ad Guds Syne.
Pa Pilatus heyrde þad Ord,
Ottadest hañ eñ meir, og gieck apt-
ur i Pijnghwsed, og sagde til JEs-
um: Hvadañ ertu? Eñ JEsus
gaf honum eckert Svar. Pa sag-
de Pilatus til hañs: Talar þu eige
vid mig? Veitstu ecke ad eg hefe
Raad til ad Krossfesta þig, og eg he-
fe Raad til ad giefa þig lausañ?
JEsus svarade: Eige hefder þu no-
ckud Walld yfer mier, nema þier
være giefed þad hier ad ofañ, fyrer
þvi hefur sa meire Synd, er mig Of-
urselde þier. Og epter þad leitade
Pilatus vid, hvorneñ hañ giæte lat-
ted hañ lausañ. Eñ Gydingar
hroopudu, Og søgdu: Ef þu lætur
þeñ-

þeñañ lausañ, þa ertu ecke Keysarans Vinur. Þviad hvør sem sig gierer ad Konunge, hañ er a mootе Keysaranum. Þa Pilatus heyrde þad Ord, leidde hañ JEsum wt, og sette sig a Doom-Stooleñ, i þeim Stad sem kallast hiñ Steinlagde, eñ a Ebreisku Gabbatha, eñ þad var Affangadagur Paaska, nærre Siøttu Stundu. Þa segier hañ og til Gydinga: Siaied, Þad Er Ydar Kongur, Eñ þeir kølludu: Burt, Burt med hañ, Krossfestu hañ. Pilatus sagde til þeirra: Skal eg Krossfesta ydar Konung? Kieñemaña Hofdingiarner svørudu: Aungvañ Konung hofum vier neima Keysarañ.

Þa er Pilatus saa þad hañ kom aungvu til Vegar, helldur þad, ad þar yrde eñ meira Upphlaup af, tok hañ Vatn, og þvode Hendurnar

fyrer Foolkenu, Og sagde: Saklaus em eg af Bloode þess hins Riettlaata, Siaed þier til. Pa svarade allur Lijdur og sagde: Hans Blood kome yfer oss og yfer Born vor. Eñ Pilatus þeinkte Foolkenu Fullnægiu ad giøra, og dæmde ad ſkie ſkyllde þeirra Beidne, gaf þeim Barrabam lausañ, hañ er iñ var settur fyrer Upphlaup og Mañdrap i Myrkvastofu, um hvorn þeir badu. Eñ JEsum Hwdstrykt-añ fraam selde hañ þeim epter þeirra Vilia, ad hañ Krossfestur yrde.

Pa tooku þeir JEsum, epter þad þeir hofdu spottad hañ, færdu hañ wr Purpura Kaapuñe, og færdu hañ i sijn eigeñ Klæde, og leiddu hañ wt, ad þeir Krossfestu hañ, Og hañ bar siñ Kross og gieck wt. Eñ i þvi þeir geingu og leiddu hañ wt, Fundu þeir eirn Mañ sem fram hia gieck

gieck af Cyrene, Simonem ad Nafn
ne, hvør ed komeñ var af Akre, Fod-
ur þeirra Alexandri og Ruffi, Hañ
höndludu þeir og þreyngdu honum
ad hañ bære hañs Kroß, og lögdu
Kroſſeñ uppa hañ, ad hañ bære
hañ epter JEſu.

Eñ honum fylgde epter mikell
Fiolde Foolks og Kveña, Hvøriar
ed Grietu og Hørmudu hañ. Eñ
JEſus ſnereſt til þeirra, Og ſagde:
Þier Dætur af Jeruſalem, grated
eige yfer mier, helldur grated yfer
ydur ſialfum og yfer Børnum yd-
ar. Þvi ſiaed, þeir Dagar munu
koma, a hvørium þeir ſegia: Sæl-
ar eru Obyriur, Og þeir Kvider er
ei hafa fædt, Og þau Briooſt, hvør
eige voru mylkt. Þa munu þeir ta-
ka ad ſegia: Fiollunum hrinied yfer
oſs, Haalſinum hilied oſs. Ef þe-
ir giora þetta vid bloomgada Tri-

ed, Hvad mun þa ſkie vid hid þurra. Eñ Tveir Spillvirkiar adrer leidduſt og wt, ad þeir være afteknet med honum. Og þeir leiddu hañ wt i þañ Stad, ſem kallaſt a Ebreſku Golgatha, hvad ed þijdeſt Hauſaſkielia Stadur, og þeir gaafu hønum ad drecka i Vijne Myrru og Edik Galle blandad, Og hañ took þad eige til ſijn, Þvi þa hañ ſmackade þad, Villde hañ ecke drecka.

Og ſem þeir komu i þañ Stad, ſem kalladeſt Høfudſkielia Stadur, þar Kroſsfeſtu þeir hañ, og med hønum Tvo adra Ræningia a badar Sijdur, Eirn til hægre Handar, og Añañ til hiñar Vinſtre, eñ JEſum i Mided. Eñ þad var nær um Pridiu Stund er þeir Kroſsfeſtu hañ. Þa vard ſu Ritning uppfyllt ſem ſegier: Medur Illvirkium er hañ reiknadur. Eñ JEſus ſagde:

de: FADer! Fyrergief Peim, Pvi-
ad Peir Vita. Ei Hvad Peir Gio-
ra. Pilatus skrifade þa Eina Yf-
erskrift, Og sette hana og upp yfer
Krossen, upp yfer hans Hofde festu
þeir hans Dauda-Sok. En Yf-
erskriften og hvør Sok honum var
giefen, var Ritud yfer honum med
Grijskum, Latinskum og Ebreskum
Bookstofum. PEsse ER JE-
SUS Af NAzareth, KOnungur
Gydinga. Pessa Yferskrift læ-
su marger af Gydingum, þvíad sar
Stadur var nærre Borgene, þar
JEsus var Krossfestur. Pa sog-
du þeir Edstu Prestar Gyding-
anna vid Pilatum: Skrifa þu eige,
Konungur Gydinga, helldur pad
han hafe sagt, Eg em Konungur
Gydinga. Pilatus svarade: Hv-
ad eg skrifade, Pad hefe eg skrifad.
Pa Strijds-Menerner hofdu

Kroßfest JEsum, Tooku þeir hañs Klædnad og giørdu a Fiegra Hluta Skipte, Sierhvørium Striijdsmañe Eirn Hlut, Og vorpudu þar uñ Hlutkieste, hvør ad hañ skyllde hafa, Og þar med Kyrteleñ, Eñ Kyrtelleñ var eige saumadur, helldur fra Ofañverdu allur prioonadur: Þa toludu þeir siin a mille, skiptum vær hønum eige i sundur, hlutuñst helldur uñ hvørs hañ skal vera, So ad Ritningeñ uppfylldest, hvad sagt er fyrer Spaamañeñ, er segier: Þeir skiptu med sier Klædum mijnum, Og aa miñ Kyrtel þa løgdu þeir Hlutkieste. Og þetta giørdu Striijdsmeñerner, og Folked stood og horfde aa. Og þeir sem geingu þar fram hiaa, hæddu hañ, skooku Høfud siin og segdu: Svei, hvørneñ nidurbrytur þu Mustered, og uppbygger þad aptur a Þremur

Dog-

Døgum? Hiaalpa þu nu sialfum þier, Ef þu ert Guds Sonur, Og stijg nidur af Krossenum. Og Hofdingiarner spottudu hañ med þeim, Lijka eirneñ hæddu hañ þeir Ædstu Prestar sijn aa medal med Skriptlærdum og Olldungum, og søgdu: Ødrum hefur hañ hiaalpad, sialfum sier gietur hañ eige hiaalpad. Sie hañ Christur og Kongur Jsraels, þa stijge hañ nu nidur af Krossenum, ad vier siaaum og meigum so trwa hønum. Hialpe hañ nu sialfum sier, Ef hañ er Christur hiñ Utvalde Guds. Hañ treyste Gude, hañ frelse hañ nu ef hañ hefur Lyst til hañs, Þviad hañ sagde: Eg em Guds Son. Ad hønum hæddu og Strijdsmeñerner, geingu til hañs og færdu hønum Edik, Og søgdu: Ef Þu Ert Kongur Gydinga, Þa hialpa þier sialfum. Lijka eirneñ

hæddu hañ Ræningiarner þeir med
honum voru Kroſsfeſter. Eñ eirn
af þeim Spillvirkium ſem heingd-
er voru, Laſtade hañ og ſagde: Ef
þu ert Chriſtur, Frelſa ſiaalfañ þig
og ockur. Þa ſvarade hiñ Añar,
Straffade hañ og ſagde: Og þu
hrædeſt ei helldur Gud, ſem ert þo i
eins Fordæmingu? Og ad ſoñu ſkl-
er ockur þetta Riettelega, þviad vid
medtøkum hvad ockar Giørder vo-
ru verdar, Eñ þeſſe hefur eckert O-
ſkickanlegt giørt. Og hañ ſagde til
JEſu: DRotteñ, Minſtu miin þa
þu kiemur i Riike þitt. Og JEſus
ſagde til hañs: Sañlega ſegie eg
þier, J Dag ſkalltu vera med mier
i Paradijs.
Eñ þar ſtoodu vid Kroſſeñ JE-
ſu, Mooder hañs og Moodur-Syſt-
er hañs, Maria Hwsfrw Cleophæ,
og Maria Magdalena. Þa JE-
ſus

ſus ſaa nu ſijna Moodur, Og þañ Læreſvein þar nær ſtandande, Er hañ Elſkade, Segier hañ til ſiñar Moodur: Kona, ſiaa þu, þad er þiñ Sonur. Epter þad ſegier hañ til Læreſveinſins: Siaa, Þad er þijn Mooder. Og upp fra þeirre Stundu took Læreſveirneñ hana ad ſier.

Og þad var nær nm̃ hina Siøttu Stund ad Myrkur giørdeſt yfer allt Landed, Allt nær til Nijundu Stundar, og Soleñ miſte ſitt Skin. Og um̃ Nijundu Stund kallade JEſus haarre Roddu, Og ſagde: Eli, Eli, Lama Sabachthani. Hv ad ed wtleggſt, Gud miñ, Gud miñ, Hvar fyrer Forlietſtu mig? Og nockrer af þeim er þar ſtoodu hiaa, þa þeir heyrdu þad, Søgdu þeir: Siaa, hañ kallar a Eliam. Epter þad, Þa JEſus viſſe ad allt var nu Fullkomnad, og ad Skrifteñ yr-

de

de uppfylld, Þa segier hañ: Mig Þyrster. Þar stood eitt Ker fullt af Edike, Jafnsnart hlioop Einn af þeim til, Og took Niardarvøtt, og fyllte af Edike, Og sette hañ ofañ aa Einn Reir-Legg, Og gaf hønum ad drecka, og sagde: Laat vera, Siaum hvørt Elias kiemur ad taka hañ ofañ. Eñ adrer søgdu: Bijded, Laated siaa hvørt Elias kiemur ad hialpa hønum: Eñ þa JEsus hafde Ediked til sijn teked, Sagde hañ: Þad Er FULLKOMNAD. Og JEsus kallade upp haarre Røddu i Aand Siñ, og sagde: FADER J Þijnar Hendur Fel Eg Miñ Anda. Og er hañ hafde þetta sagt, ad hneigdu Høfde, Uppgaf hañ siñ Anda.

Og siaa, ad Tiallded Musteresens rifnade midt sundur i Tvo Parta, fra ofañverdu, allt nidur i gieg-

num,

num, Og Jørdeñ skalf, Og Biørgeñ klofnudu, Og Grafernar lukust upp, og marger Lijkamer Heilagra risu upp, Peir ed svæfu, og geingu epter hañs Uppristu wr Grøfunum, og komu i hina Heilogu Borg, og auglijstust þar mørgum. Eñ er Hundrads-Hofdingeñ, Hvør þar stood giegnt, sáa þad hvad þar skiede, Og ad hañ kallade so, Pa ed hañ lietst, Prijsade hañ Gud, og sagde : Ad vijsu hefur þetta eirn Riettlætur Madur vered og Guds Sonur. Og þeir sem med honum voru ad vardveita Jesum, þa þeir sáu Jardskiálftañ, og þad hvad þar skiede, urdu þeir miøg Ottaslegner, og søgdu: Sañlega var þesse Guds Sonur! Og allt Foolk, er þar var hiá og horfde á, Sem þeir sáu hvad þar skiede, barde þad sier a Brioost og snere i burt aptur. Eñ aller

hañs

hañs Kuñingiar stoodu langt fra.
Par voru og margar Konur, Sem
saau þar uppa æleingdar, Medal
hvørra ad var Maria Magdalena,
og Maria hins Litla Jacobs, Og
Joses Mooder og Salome, Mood-
er þeirra Zebedæi Sona, Pær hon-
um høfdu Epterfylgt, Pa hañ var
i Galilæa, Og þioonad hønum, Og
margar adrar, Hvøriar med hon-
um høfdu uppfared til Jerusalem,
wr Galilæa, Og horfdu æ þetta.
Eñ Gydingar, med þvi þad var
Affaanga-Dagureñ, so ad Lijkam-
arner være ecke æ Krossenum uñ
Sabbats-Dageñ (þvi sa same Sab
bats-Dagur var mikell) Pa badu
þeir Pilatum, ad þeirra Bein brit-
ust og ofañtækest. Pa komu Str-
ijds-Meñerner og brutu sundur Be
in hins Fyrsta, og so hins Añars,
sem med hønum voru Krossfester.
Eñ

Eñ þa þeir komu til JEsum, og sau ad hañ var allareidu daueñ, þa brutu þeir eige hañs Bein, helldur Opnade eirn af Strijds Mőnunum hañs Sijdu med Spioote, og strax þa rañ wt Blood og Vatn. Og sa er þad hefur sied, ber þar Vitneum, og hañs Vitnisburdur er sañur, og hañ same veit þad, ad hañ segier satt, so ad þier og so trwed. Þvi ad þetta er skied, so ad Ritningeñ uppfylldest. Eige skulud þier brioota nockud hañs Bein. Og eñ aptur segier Oñur Ritning: Þeir munu siaa hañ, J hvorn þeir stungu.

Dar epter þa ed Kuolld var komed, af þvi þad var Affanga Dagur, Hvor ad er fyrer Sabbats Dag eñ. Kom nockur Madur Rijkur af Borg Gydinga Arimathia, Joseph ad Nafne, Eirn Heidurlegur Raad=

Raad-HErra, Goodur Mañ og Riettviis, Hvør elge hafde vered samþyckur þeirra Raadagiørd og Breitne, Hvør ed og so var eirn af Læresveinum JEsu, þo heimuglegur, fyrer Otta Saker vid Gydinga, sa er og vonade epter Guds Rijke; Hañ dirfdest ad gaanga iñ til Pilatum, og bad um̃ ad hañ mætte taka nidur Lijkamañ JEsu. Eñ Pilatus undradest ad hañ være þegar laaten, og kallade Hundrads Hofdinglañ, og spurde hañ ad, Ef hañ være fyrer laungu andadur? Og er hañ var þess viis ordeñ af Hundrads Hofdinglanum, leifde Pilatus og skipade ad Joseph skyllde afhendast Lijkameñ, og gaf hønum hañ. Þa kom hañ og took nidur Lijkamañ JEsu. Og hañ keypte eirn Lijn-Dwk, og took vid Lijkamanum, og sveipade hañ i hreinu Ler-

epte-

epte. Par kom og Nicodemus, Sa er fyrre kom um̃ Noott til JEsu, færande samblandada Myrru Aloe, nær Hundrad Punda. Pa tooku þeir Lijkaman̄ JEsu, og sveipudu han̄ i Lijne med dijrmætu Salve, so sem Gydinga Sidur er til ad greptra. En̄ þar i þeim Stad sem han̄ var Krossfestur, var Gras-Gardur, og i Grasgardenum var nij Grøf, J hvoria ad eingen̄ hafde en̄ vered lagdur, og Joseph lagde hn̄ i þessa sijna eigen̄ nija Grøf, hvoria han̄ hafde wthøggva læted i Steine, og vellte stoorum Steine ad Grafar-Dyrunum, og gieck i burt. Og þad var Affaunga-Dagur, og Sabbats-Dagu ren̄ took til, þaungad logdu þeir JEsum fyrer Saker Affaunga-Dagsens Gydinga, Pviad siv Grøf var nærre. En̄ þar var Maria Magdalena, og Onnur

Maria

Maria Joses, og þær Konur sem komnar voru med honum af Galilæa, fylgdu epter, sitiande giegnt yfer fraa Grøfeñe, og skodudu Grøfena, saau til hvar og hvorneñ hañs Lijkame var lagdur. Eñ þær sneru aptur, reidande til dijrmætar Jurter og Salve. Eñ um̃ Sabbats-Dageñ voru þær kyrrar epter Løgmaalenu.

Og Añañ Dag hañ sem epter Affaangadageñ er, søfnuduft saman þeir Yppurstu Prestar og Pharisæi aasamt til Pilatum, Og søgdu: Herra, Vær myñunst a þad, ad þesse Svikare sagde, Pa er hañ lifde, epter Þria Daga mun eg upp rijsa, Af þvi skipa þu ad forvara Grøfena allt til hiñs þridia Dags, So ad eige kome hañs Læresveinar a Noottu og stele honum i burt, og segie Foolkenu ad hañ sie upprisen

risen fra Daudum, Og verde hin Seirne Villa argare heirre Fyrre. Pilatus sagde til heirra: Þar hafed hier Vardmeñena, Fared, forvared sem hier hafed Vit a. Eñ þeir geingu i burt og forvørudu Grofena med Vardmoñunum, og Jñsigludu Steineñ.

Ender Pijningar Historiuñar.

# Bæn/og Packargiørd fyrer Christi Pijnu/og Dauda.

HErra JEsu Christe, Þu Jsraels Huggun og Traust, Vor Heill og Hialp a Jard Rijke. So opt sem eg Aumur Syndare hugsa um þijna Saaru Refsing og Blooduga Krijning, Er mijnu Hiarta sem þad heire til þijn, miñ

miñ Lausnare, Velnande og Kvein ande þar vid Stoolpañ i Doom-Hwsenu. Eins og lijka sæe þad þig Kvijdande vid hvørin Høgge, Og Eingiande þig samañ af þeirre sa-ru Barsuuijd og Lemstran, Og hvør neñ þu varst þar allur Blaar og Bloodrisa, Jaa, Blood mareñ og Undum-Krameñ i sundur. ÆE! Hvad Aumyñelega lijtur þu til mijn Aums Syndara. Eg Ottast og hrædest, Lausnare miñ, ad eg hefe margañ Hnwteñ hnijtt aa þijnar Hirtingar-Svipur, og þitt H. Hofud, med mørgum hvøssum Synda-Þyrne nijst og stunged, Jaa, eirneñ med þijnum Kvølurum margre Syndaña Obeckt, J þitt Heilaga Andlit varpad og fleigt. Hendla nu Lausnare miñ ecke vid mig epter Syndum mijnum, og gialld þu mier ecke epter Misgiørdum og Rang

læte mijnn. Minſtu ecke a Jll ſku og Synder mijns Ungdooms, Jaa, Hvorke Jngra nie Elldra, Helldur laat mig þeirre Kroptugn Huggun naa, af þeſſum Kvolum og Pijſlum. Gief þu mier min trwe og trauſte Endurlauſnare, ad þa þeir Skorpu Angiſtar-Broddar og Pyrner ſtijnga og ſæra Samvitsku mijna, Eñ Satan ſlær og lemur, ad þijner H. Blood-Dropar og Blood-Læker, ſem þu i Neſſinguñe og Krijninguñe, ſem optar, Leiſter og wthellter, Lijfge og nære mijna aumu Saal. Og þa Dioſulleñ kall ar um mig, ſem þar um þig, Ecce Homo. Siaa, Hvilijkur Avortur ertu ordeñ? Hvad vel hefur þu fyrerſied? Til hvørs hefur þu uñed? Kalla þu þa aptur i mijnu Hiarta, Ecce Homo. Lijt til mijn, Salus tua ego ſum. Eg er þijn Heill og

R Hialp.

Hiaalp. Hafdu mig under þiñe Purpura-Kaapu, og skijldu mier so, þvi þa er eg Okvijdeñ fyrer Guds Riettlætes Reide og Helvijtis allre Makt. Dreyp þu æ mitt auma Hiarta Einum þijnum H. Blood-Dropa, sem þu mister, edur af þier rañ i Doom-Hwsenu, Pa er mier Æfeñlega bætt og gott, Þvi eg veit og trwe, ad minste þiñ Blood-Drope er Verdugre og Dijrare eñ Veralldar allar Synder. Eñ a medal þessara og añara Orda, Sie þier Eilijf Hiartans Þock, Miñ Hiartans Blod-Brwdgume, og þa mijn Seinasta Stund er komeñ, þa vertu mier so fyrer Augum og Sioonum, og gief æ þijna Naad, ad ef eg ætte þiña vegna nockra Þyrna ad kieña, eda Alogur og Særingar ad lijda, eda ef Verølld af sijnum Utlæðtum af Haade og Spotte, og odru Ad-

kasste

kaste upp at mig blæde, ad eg þa fyr er Krapt þessa þijns dijra og Hellaga Bloods, med allre Poleÿmæde þessum þijnum Footsporum fylgie, Og alla mijna Ovine so yfervinne, og so þvi Himneska þijnu Frid Lande naae, Amen. Miñ Lausnare fyrer þitt Blood og blessadar Under, Amen,

Amen.

# BÆNENN

Sem allstadar er tilskipud i Hans Konunglegu Majest. Rijkium og Londum, skule af ollum Suñudogum og Helgum, af Prestunum, af Predikunar-Stoolunum, epter Predikun leseñ verda, þa ei er skipad adrar Bæner ad brwka.

Almattuge Eilijfe Gud og Myskunsemdaña Hiartkiære Fader! Vier þöckum þier af Jñsta Hiartans Gruñe, ad þu lit-

etſt þad fagra Gudſpialls-Lioos lij-
ſa fyrer oſs, þa er vier i Myrkre og
Daudans Skugga ſaatum; Þitt
aagiæta og dijrmæta Ord, er eñ nu
og ſo aa þeſſum Dege til vor talad;
Vier høfum heyrt hvørneñ þu til-
bijdur oſs, i þvi, alla Velgiørninga
þijns Sonar vors Endurlauſnara,
i Velgiørningum Sonarens, þijna
Naad, fyrer þijna Naad, Synd-
aña Fyrergiefning, Riettlæted og
eilijfa Saaluhiaalp. Himneſke
Fader! Villtu eñ þa hirda um̄ oſs,
er ſo þraaſækelega høfum vered þijn-
um Bodum Ohlijduger? Villtu
eñ nu kalla aa oſs, ſem erum ſo treg-
er ad koma, jafnvel þo oſs ſie fram̄-
boded Lijfed, og ſw fullkomna Gn-
ægd? Jaa DRotteñ! Þu lætur ei
af ad giøra oſs til gooda, þoott vier
laatum ei af ad giøra hid Vonda,
bæde i Strijd vid þig og ſiaalfa oſs;
Opt

Opt høfum vier til forgiefens med-
teked þijna Naad, og þo fraumbijdur
þu oss hana, og kunngiörer i þijnu he-
laga Orde, ad hvør sw Stund sem
vier lifum, sie eirn Partur af Tijma
Naadareñar, og heyre til Dege Hi-
alpræðesins. Skylduun vier þa
af Sialfrædes-Ofvermoodsku ve-
ra so sinader, ad vanbrwka Tijman,
og fordiarfa af oss þa Saaluhialp-
legu Eilijfd. DROtteñ! Þiñ go-
ode Ande fylgest ætijd med þijnu he-
laga Orde, sem er Lijf og Ande, sa
þiñ same Ande stadfeste hvørt Ord i
vorum Hiortum, af þeim vier i dag
heyrt høfum, og heyra munum,
so leinge sem vier lifum: Þad verke
i oss Trwna til þijn, Forackt til He-
imsins, og Hiartanlega Epterlaan-
gan til Himensins! Þad nidurdeim
þe allt hid Vonda sem bijr i oss, og
giøre vorn reidubwna Anda hvert

Augnablik, Æ vilingre og vilingre til þess ad þioona og þacka þier, og tilbidia þig i Anda og Sanleika! Þu mikle Fader Lioosana, Burtflit alldrei þiñ Lioosa Stiaka fraa oss. Laat oss alldrei fiñast i þeirra Tolu sem elska meir Myrkred eñ Lioosed, helldur hiaalpa, ad vier mættum jafnañ med Andackt, nææalgast þitt Hws, heyra þitt dijrmæta Ord, og brwka þau, af þier Jñstiptudu Hææverdugu Sacramenta! Gief þu Kieñendur epter þijnu eigeñ Hiarta, sem kuñe ad fæda þiñ Søfnud med Pecking og Forstande, Lijka uppbyggie bæde med Lifnade og Lærdoome. Gief Tilheyrendum um adgiæteñ Hiortu ad heyra þitt Ord, og Hlijdne ad lifa epter þvi sem þeir heyra, so þeir faae i øllum Hlutum prijdt þijna og vors Endurlausnara Kieñingu! Vier þockum þier

er og so, Hiartkiære Himneske Fader! fyrer þad þu so Naadarsamlega, hefur opnad Dyr Trwareñar fyrer so mørgum Heidinglum, sem hijngad til ecke þecktu þig; Og þar ed þiñ Smurde, Vor Allra-Naadugaste Kongur og Herra, ber so ækafleg a Umsorgun fyrer þvi þijnu Verke, So blessa þu Kongeñ þess vegna þiñ Þienara hier i Tijmanum, og sijdañ i Eilijfdeñe! Efl þu sialfur framveiges O þu Mÿskunsame Gud! Þetta þitt Verk; Laat þitt Ord rijkuglega bwa hiaa þeim i øllum Vijsdoome sem brwkader eru þar til, erfida þu sialfur soleides med þeim, ad bæde Heidingiarner og aller Oupplijster Christner, meige fyrer þijns Ords Predikun snwast fraa Myrkrunum til Liooss ens, fraa Satans Vallde til Guds, so ad þeir ødlest Apturhvarf og Synd-

aña Fyrergiefning, asamt Arftø-
ku med þeim sem Helgader verda fy
rer Trwna a JEsum Christum.

Giør alltijd vel vid vorn Allra-
Nædugasta Arfa Kong og Herra,
Kong FRJDERJCH þañ Fim-
ta. Þijnar Blessaner margfalld-
est hvorn Dag og hvorn Tijma yfer
Hañs Majest. so hañ jafnañ fiñe nij
Merke þijns Fødurlega Kiærleika,
og siaie sig alltijd leiddañ af þijnum
Anda i øllum sijnum Haau Kon-
unglegu Embættis Utriettingum,
verndadañ af þiñe Hægre Hende,
og stioornadañ af þier, þar bæde
hañ og aller Kongar stioorna fyrer
þig! Vert þu Ovinur þiña og
hañs Ovina, og gief oss hlijdeñ Hi-
ortu ad vera honum hlijdner og trw
er, so sem þu hefur giefed honum Hi-
arta ad vera þier hlijdeñ og trwr.
Haf þu Oaflaatanlega þijna Hønd
þitt

þitt Auga og þitt Hiarta hiaa Hen-
ar Majest. Vorre Allra-Naadug-
ustu Drottningu, Drottningu LO-
VJSE, samt Eckiu Drottning-
unne SOPHJÆ Magdalenæ, so
þeirra Majestæter hvort Foot-
Stig þær gaanga, sinne hvornenn
þær leidast af þinne Almættis Hen-
de, Naadfærast af þijnu Alskygna
Auga, og elskast af þijnu Fodurlegu
Hiarta! Vijsa þu siaalfur Hanns
Konunglegu Haatygn, Vorum
Naadugasta Arfa Printz og Her-
ra, þann Veg sem hann aa ad gaanga,
Jaa, Gack med honum hvort sem
hann geingur! Laat Kiærleika Ha-
nns Konunglegu Haatignar til þijn,
og þinn Kiærleika til hanns fara Dag
vaxande, sem hanns Ar og Dagar
fiolga, ad hann ætijd nu og hier epter,
leite og sinne i þier hanns einasta og
Ypparsta Gooda. Umfadma þu

þær Konunglegu Princeſsur, og lát þær hvijlaſt a þijnum Armum, vidhallt þu þijnum Otta i þeirra Hiortum, og lát þær jafnañ ſiña, ad hvilijkur þiñ Otte, hvør ed yfergeingur alla Hlute, er til allra Hluta nytſamlegur.

Vertu ſialfur Ein Gyrding og glooande Mwr i krijngum allt þad Konunglega Arfa-Hws! Þu ſem hefur þad byggt og hlÿngad til verndad, gief ad þad blijfe ſtadfaſt, allt þar til, ad Umſkipte verda a Tijmanum og Eilijfdeñe! Undervijſa þu Hañs Majeſt. Raade og Pioonum, lát þá alldrei i þeirra Utrettingum leita þeſs ſem þeirra er, helldur þeſs, ſem er þitt og þijns Snurda! Þa verdur Kongſins og Underſátaña Beſta þeirra einaſta Augna-Mid. Utbrynia þu Hañs Kongl. Majeſt. Strijds-Makt bæ-

de

de til Lands og Vatns; Gief þeim Hiarta ad þioona trwlega, og þa Tijme er til ad beriast Karlmañlega, laat þaa ætijd lifa og þioona þier, so sem þaa er kuñe ad lifa og deya fullvisser þar um, ad þu siert ætijd med þeim; Þvi hvør kañ þa ad vera aa moote þeim.

(Hier maa, þar sem þad er Sidur, liika bidia fyrer Yfervolldunum, eins og vered hefur.)

Myskuna þig yfer allañ þiñ Christeñdoom! Blessa þu sierdeiles þesse Rijke og Lønd, hvørn Stad i Rijkiunum, hvørt Hws i Stodunum, hvøria eina Saal i Hwsunum! Neidstu ecke ad vier þijn Overdugu Børn Prææbæmum þig um so miked! Eñ hvørt skulum vier so stoorer Syndarar, sem vier erum, flya, utañ til so Hiartañlegs Medaumkara, sem þu ert? O Þu Fader allra Myskunsemda! Vertu oss

 aum-

aumum Syndurum nædugur: Hrøsum vier þa stid þu ofs, so vier ecke feilum; Ef vier follum, þa reis þu ofs a fætur aptur, at vier ecke liggium fallner. Vier hofum Syndgast, og vier syndgum Daglega; En Saker þijns Syndlausa Sonar, þa gleim þu vorum Syndum, en gleim alldrei ad vera ofs nædugur! Lat eingan Ovin syna Ofrid þessum Londum! En ef þad skiedur, þa vertu vor Verndare og þeirra Ovinur! Vardveit ofs fra Drep-Soott og næmum Skyndaudum! Gief sierhvorium af ofs sin aakvardada Skamt, en þo sierdeilis aanægt Hiarta, med þad þu honum wtblutar! Farsæl þaa hondlande, Vijsa þu Leid þeim Sioofarande! Stirk hvørs Ærlegs Mans Erfide! Vardveit Dijke og Stijflur i Kongsins Korn-Londum:

um: Gief og Blessan Bergverkunum i Noreg, þeirra Framkvæmd til stødugrar Lucku, Framgaungs og Blessunar! Tak þu ad þier all ar Eckiur! Vertu Forsvar Fødurlausra! Yfergief þu alldrei neirn af þeim yfergiefnu! Vitia þu Sottar-Sængur hiña Veiku! Medtak þu þad sijdasta Andvarp þeirra sem i Trwñe deya, og laat Saaler þeirra ødlast Hlutskipte i eillijfre Glede!

Gief oss ætijd so ad heyra þitt Ord, ad vier fiñum og verdum varer vid i vorum Saalum, ad þad sie Kraptur Guds til Saaluhiaalparenar, og audsynum i voru Lijfe og Framferde, ad þad sie siu Regla og Mæle-Snwra, epter hvørre vier framgaungum! Þiñ heilagur Ande verke fyrer þad sama þitt Ord Trwna i vorum Hiortum! Hañ

hiaalpe ofs fyrer Trwna ad um̃fadma Høfund og Fullkomnara Trwareñar, so ad vier fyrer hañ ad eignum odlast Endalok Trwareñar, pad eilijfa Lijf, þijna Naadar-Giøf i DRottne vorum JEsu Christo! Amen J JESU Nafne,

A M E N.

# B Æ N E N

## sem brwkast aa vid Barnaña Confirmation.

DU Eillijfe og Almaattuge Gud! Fader DRotteñs vors JEsu Christi, og vor allra Fader, af hvorium allt Faderne hefur sitt Nafn aa Himne og Jordu: Vier beigium vor Knie fyrer þier, og graatbænum þijna Fødurlega Elsku, Med hvorre þu hefur hijng-

hijngad til elſkad oſs og villt hier ept er elſka oſs; Þijner Velgiørning-ar eru fleire, Eñ vier gietum taled þa riettelega, og ſtærre eñ vier kuñ-um þa noogſamlega ad þacka: Þad er þijn Giæſka ad vier lifum, og þijn Myſkunſeme, ad vier meigum væn-ta betra Lijfs eñ þetta er: Þu upp-fræder oſs i þeſſu Lijfe, til ad odlaſt hitt añad, ſem þiñ Sonur hefur oſs forþienad, til hvørs þiñ Ande vijſar oſs Veigeñ: Vier vorum naunn-lega iñkomner i Heimeñ, ædur eñ þu hreinſader oſſ fyrer Vatns-Bad ið i Ordenu, af þeim Saurendum, ſem vier færdum med oſs: Þu hef-ur lofad ad vera vor Fader, og med-taka oſs, ſem þijns Sonar Bræd-ur: Þu gafſt oſs þiñ Heilaga An-da i Pant og til Viſſu um þiñ Kiær leika og Arfleifd þeirra Heilogu, ſem hiaa þier er oſs til hins Beſta;

Vier

Vier lofudum aptur a moot, ad afneita þijnum og vorum Ovin, ad umflija allt þad sem strijder a mote þine Dijrd og vorre Velferd: Þu hefur hallded þitt Loford, þvi vier høfum reynt þig ad vera þann besta Velgiorda-Fodur allt til þessa Dags; Enn hvørnenn vier høfum hallded vor Heit og Lofaner, þad er þier alleina best kunnugt; Vier vitum ad sønu, ad vier erum Synduger, enn þu veitst þo af Fleire og Stærre Syndum hiaa oss, enn vier sialfer vitum. Þegar vier bundum Saatt-Maala vid þig, enn þu aptur a moot verkader Trwna i oss, og gafst oss þinn Anda, vorum vier enn þa Ung-Børn og kunnum ecke Handa vorra Skil, nie Footum vorum Forraad, samt var þad þier þægelegt, ad vier ei ad sijdur, sem Smaa-Børn skylldum koma til þijn, Þvi þu villder giøra

giøra oſs viſſa um̃ þañ Rett, ſem vier af þiñe Naad høfum til Himnarijkis, So framt ſem vier ei ſiaalfer forſoomum ſlijkt Hiaalpræde, og giørum oſs Overduga þeſs Eilijfa Lijfſins. Med þvi eckert kañ jafnaſt vid þijna Giæſku, þa er þad Tilhlijdelegt, ad þier verde fyrer hana Openberlegt Packlæte audſynt i þijnum Sofnude, hvern þiñ Sonur hefur med ſijnu Dijrmæta Bloode, So dijru Verde keypt: Pad er Naudſynlegt, ad þad þier hefur vered lofad af þeim, ſem adrer giørdu þeirra vegna, verde af þeim ſemu Itrekad, Pegar þeir vita ad giøra Skyrſlu a ſijnum Hiartans Penkum, og þeſs helldur fære ſkulldbunded ſig vid þig; Pu vor Gud awiñur Vegſemd þar med, þvi þu Ovirder ecke, jafnvel þa Lofgiørd, ſem þu tilreider þier af Muñe Smaa-Var

nañа;

naña; Þau ſtirklaſt i Trwñe, og bindaſt med þeſs ſterkara Bande vid þig; Pad er oſs til Uppbyggingar, þegar vier heyrum, hvorſu þau kuña ad giøra Grein a þeirre Von er þau hafa) Til þeſſara Erenda giørda hafa mørg af þijnum Børnum a þeſſum Deige hier ſamañſafnaſt, Og ei alleinaſta ſynt, ad þau eru uppfrædd uñ þiñ Vilia og þijna Velgiørninga epter Guds Orde og þeirre Oumbreittu Augsburgiſku Jaatningu, helldur og eirneñ hafa þau Endurnyad þañ Saatt-Maala, ſem vid þig giørdu i þeirre Heiløgu Skijrn; Gief ad þeirra Hiørtu epter þeña Dag ad-hylleſt ecke nockurn, eda nockud, utañ þig alleina, og þad ſem hier er vel þocknanlegt. (Hiaalpa þu þeim til ad Hugleida hvad ſtoora Naad þu hefur þeim audſynt i þeirre Heiløgu Skij-

rn,

rn, þar þau, i Synðeñe gieteñ og fædd, høfdu forþienad Dauðañ, urdu fyrer Endurfædinguna so frel ſiid frꝛ hvørutveggiu, ad Synðeñ kañ ei framar ad Fordæma þau, og Dauðeñ ei helldur ad giøra þeim Skada, Nær þau ſiaalf vilia ecke ſyndga mootþrooanlega og deya Eilijflega. (Var eige þijn Giæſka yfred ſtoor, ſem giørde þau fullviſs, uñ Barna Utvalninguna, jafnvel þo þu hefder laangtum betre Børn i þijnum Einka Syne, fæddum fra Eilijfu, i þeim Heilogu Einglum, ſem aller eru þijn Børn, þo þeir ſieu ecke þijns Sonar Brædur.) Þu hefur fyrer Skijrnena giørt þau hluttakande i Dyrdlegu Frelſe þiña Barna og fullviſs uñ þitt Fodurlega Hiarta, ſo og giefed þeim Rett til þeſs eilijfa Lijfs, og Lijfſins Coronu, og giørt þau eirneñ ad Med-

Borg-

Borgurum þeirra Heilegu, og þij-
num Heima-Mońum; Kuńer þu
ad veita Nockrum stærre Naad?
Mundu þau kuńa ad vænta stærre
Goodsemdar af þier eda ødrum?
O DRotteń! Kień þeim ad Jhuga,
hvad Gruńlaus þijn Giæska er vid
þau, og ad grææta yfer þvi, hvørsu
lijted þau hafa skiled af þessum þijn-
um Himneska Velgiørninge; Kień
þeim ad ææsaka sig siaalf, sem Yfer-
trodslu-Meń fraa Moodur-Lijfe,
hverra Hiartans Paanka Uppaa-
finding hefur vered vond fraa Barn-
doome, ad þvi Leite, þau hafa þraa-
lega geinged ææ Vegum sijns Hiar-
ta, og epter þvi, sem þeirra Augum
hefur litest, hvørsu illa sem þeirra
Hiortu og Augn hafa þess ææ mill-
um vijsad þeim Veigeń; Gief þe-
im ætijd þijna Naad, til ad þeckia
og ydrast þessara Afbrota, hver ad
erű

eru gagnstæd þijnum Heilaga Vil-
ia, og at moote þvi, er þau hafa þier
Heilaglega lofad.
Þijn Naad hefur sparad þau til
þessa Tijma, So þau mættu i þijns
Safnadar Aheyrn Endurnya þad
Heit, at moote hvøriu þu tookst af
þeim, þa Stund þau voru hreinsud
fyrer Vatns-Baded i Ordenu;
Laat þau alla þeirra Lijf-Daga at-
stunda ad hallda þær Lofaner, sem
og eirneñ med Ugg og Otta, fyrer
þvi, ad bregda af þeim nockru Siñe,
Verka þeirra eigeñ Saaluhialp;
Framkvæm þad i þeim, ad þau vil-
ie þioona þier, sem helgar þeirra Vil
ia; Verka þu þad og eirneñ, ad þau
meige wtrietta þad þu villt, og þau
siaalf eiga ad vilia, So helgar þu
þeirra Verk; Og so sem þau æn
þijns Sonar, kuña olldunges eck-
ert ad giera, þa laat hañ vera i þe-
im,

lin, og þau i hønum, So ad hañ og þau meige vera Eitt, Lijka sem þu og hañ erud Eitt, ad þau fyrer hañ fare megnad þad þau af siaalfum sier i eingañ Maata gieta; Vertu þeirra Ungdooms Typtunar-Meistare, so laata þau ei einasta af, ad giøra þad Vonda, helldur læra ad giøra þad Gooda, So faa þau ei alleinasta Vidbiood a þeim faxnijta Hiegooma sem er i Heimenum, helldur leggia þar ad auke Kapp aa i Trwñe ad andsyna allar þær Christelegar Dygder, sem hier eru þockanlegar, og þeim siaalfum mestur Soome ad, so ad þau verda meige hreiner Bwstader fyrer þiñ Anda, sem hefur hreinsad þau i Skijrneñe, og er alltijd Reidubweñ, ad meddeila þeim sijnar Gaafur. (Þau hafa nu Goodviltuglega, og i allra Vorra Aheyrn, Lofad ad afneita

Dioft-

Dioflenum, ollu hans Athæfe, og ollum hans Verkum; Veit þeim þijna Hiaalp, So slijkt falle þeim alldrei wr Myñe; Laat þau med alvarlegu Hatre hata alla þijna Ovine, so sem þeirra Saalar og Saaluhiaalpar Ovine. Hindra þu Goode Fader! ad þau nockru Siñe giefe Dioflenum þad Rwm, ad þau giore þad hañ vill, eda hlijde þvi hañ Raadleggur, Þvi hans Athæfe er Svikſamlegt, og strijder aa moote þeirra Frelse, hans Giørningar eru Skamarleger, og stofna til þeirra Fordiørfunar; Laat þau ecke falla i þær Ovinarens Hendur, fra hvørium þu hefur þau frelsad, helldur hiaalpa þeim ad þioona þier i Heilagleika og Riettlæte alla þeirra Lijfdaga; Og þo Satan, Þeirra Mootstandare, gaange um krijng, þa bañа hønum ad svelgia þau;

Upp=

Upplijs þeirra Skilnings-Augu, so hañs Raadabrugg verde þeim ecke Okuñugt; Riett þu þeim Skiolld Trwareñar, ad þau i þeim sama gete wtslockt hañs glooande Pijlur; Laat þau af Rijkdome þiñar Dyrd ar kroptuglega stirkiast, fyrer þiñ Anda i þeim Jñra Mañe, So þiñ Sonur bwa meige fyrer Trwna i þeirra Hiortum, so verdur hañ, sem er i þeim, meire eñ saa, sem er i Heimenum, og þeim aa moote, þau verda stirk, og faa yferuñed þad Vonda, med þijnu Orde, sem hiaa þeim bygger.)

Þau hafa nu Skulldbunded sig til ad trwa aa þig, þiñ Son, þiñ og þijns Sonar Heilagañ Anda; Hiaalpa þeim hvorn Dag ad giora Enda aa þeirra Lofunum, ad trwa aa þig af ollu Hiarta, Og alldrei sleppa þeirre Trw, Þau hafa þier

og

og þijnum Heiløgum lofad, helldur
ad þau fylgia meige þeim O-Rask-
anlega, O-Umbreitanlega, og O-
apturkallanlega Sañleika, sem er
þad Eilijfa Lijfsins-Ord, og Veg-
vijser til Eilijfs Lijfs; Laat þau
þeckia, ad þau giøra alldrei añad be-
tra, eñ giefa grandvarlegar Giæt-
ur ad þvi sama Hiaalpræđes-Orde,
hvørt, So sem eitt skijnande Lioos i
myrkvum Stad, skijne iñ i þeirra
Hiørtu, til Upplijsingar þijns Son-
ar Ypparlega Lærdoome; Laat
þad upplijsa þeirra Skilning, Hel-
ga þeirra Vilia, Og giefa þeim
Raad i øllum þeirra Athøfnum;
Laat þad, ad þau hafa kallad þig
Fødur, miña þau aa þañ Heidur,
sem good Børn eru skylldug ad vei-
ta so goodum Fødur; Ad þau hafa
aakallad þiñ Son, Sem er Eirn
DRotteñ, vidhallda þeim Otta i
O                    þeirra

þeirra Hiortum, hvorn Trwlynder Pienarar eiga ad veita þeim HErra, Sem er Himens og Jardar DRotteñ; Ad þau hafa aakallad þañ Heilaga Anda, myña þau aa, hvorneñ þau eiga ad fylgia hønum, i þvi, ad framganga i øllum Sañleika og aa þijnum Vegum; Lаat þau jafnframt alldrei gleyma þvi er þau hafa svared i Dag, og so fastlega þar epter hallda, ad þau Daglega vardveite Dooma þijns Riettlætis. Þijner Pienarar hafa med Handaña Uppaaleggingu blessad þau, og beded þiñ Heilaga Anda ad auka sijnar Gaafur yfer þeim og i þeim. DRotteñ, tak alldrei þijna Hønd, eda þiñ Heilaga Anda fraa þeim; Stioorna þeim, sem þijnum Handa-Verkum! Utriettu þijna Hønd til ad stirkia, hiaalpa og verja þau moote øllum þeirra Andleg-

um Ovinum, og lææt eingañ slijta
þau wr þiñe Hende. Þau hafa nu
jaatad þig Openberlega, ad vera siñ
Gud, sem og liooſt giort ad þeim er
ei Okuñugt uñ þig, þiñ Vilia, og
þijnar Velgiorder, hvors vegna þe-
im er lofadur Adgæængur til þijns
Sonar Heilaga Lijkama og hañs
Dijrmæta Bloods, i þvi Hæverd-
uga Alltaresins Sacramente. Lææt
þau alldrei, Nema vel proofud og
underbwen, frañkoma til þvilijk-
rar Sæluhiæalplegrar Maaltijd-
ar, helldur Hugleida hvors þau ver-
da þar niootande, og hvad epter mu-
ne koma, Ef þau mæta þar, sem O-
verduger Giester. (J-klæd þau
siaalfur þvi rietta Brwdkaups-Klæ-
de, Tilbw þau sem þu villt siaalfur
þau sieu, og lææt þau so taka æ moo-
te Giædum þijns Hwss, og þeim
Heilegu Hlutum i þijnu Mustere,

sem þau ed ætla sier ad Lifa og Deya O-efud um̃ ad verda Hluttakande i þijnum Himne og Vegsemd, og i þin̄e Dijrd og Saaluhialp. Verka þad, þau alldrei gleyme ad þu hefur giefed þeim Eitt Rwm i þijnu Hwse, Eitt Nafn, sem betra er en̄ Sona og Dætra. Hiaalpa þeim hvört sem þau gaanga um̃ þijn Andyre, ad fin̄ast i þijnu Hwse, sem þijner Heima-Men̄, Sem og Jn̄e og Ute fyrer þvi, ad verda þeckter fyrer þijna Syne og Dætur) þijn Saaluhiaalplega Raad age og uppfræde þau, ad frafælast Ogudlegt Athæfe, og þær Veralldlegu Gyrnder, ad lifa Hreinferduglega, Riettferduglega og Gudlega i þessum Heime, so sem þau ed vænta, og eru viss um̃, ad þeim skule Eilijflega vel vegna an̄ars Heims; Þvi nær þau þeynkia um̃ þig sin̄ Skapara i þeirra Ung
þoome,

doome, þa villtu og eirneñ þeynkia til þeirra til hins Besta, hier og sijðar i Tijmanum og Eilljfdeñe. Hialpa oss ollum, Gomlum og Ungum, Forelldrum sem Børnum, so Hwsbændum sem Pioonustu-Foolke, ad Hugleida og syrgia hvad litlu Þacklæte vier høfum offrad þier fyrer þijna Naad oss veitta i þeirre Heilogu Skijrn, samt hvørsu illa vier høfum gollded þier þau dijrmætu Heit, sem þa voru giørd af oss: Þiñ goode Heilage Ande leide oss hier epter, til ad hafa Vidbiood a ollu þvi, sem þier mis-þocknast, Eñ hallda fastlega vid þig alleina; Sierdeiles laat oss alldrei med Athugalausu og Hneixlanlegu Lijferne i Ordum, sem añadhvørt strijda a moote þijnum Opeñberudum Sañleika, eda a moote Soomasamlegu Sidlæte, hneixla neina af

þeim Smælingium, og Ungling-
um, sem kuña ad vera hiaa oss, þvi
þa mættum vier Orsaka ei alleina
vorum, helldur og so þeirra-Saal-
um Eilijfa Fordiorfun. Strijd
med og fyrer þijna strijdande Kyrk-
iu, hvørrar Limer þeir eru, sem i
Dag hafa Opeñberlega giørt sijna
Trwar-Jaatning; Þitt Heilaga
Ord, og þijn Haaverdugu Sacra-
menta vidhalldest hiaa oss, aan min
stu Umbreitingar til Veralldareñ-
ar Enda, ad vier fyrer þad hvørtv-
eggia mættum alltijd komast þier
nær og nær. (Þiñ Smurde, Vor
Allra-Naadugaste Arfa Herra og
Kongur, Kongur F R J D E-
R J C H Fimte, sie og vere Bless-
adur af þier nu og sijdar meir, i þess
are og þeirre Tilkomande Veroll-
du; Laat Hañ uppskiera Avøxteñ,
lijka eirneñ af þessa Dags Utriett-
ingu,

ingu, so ad Hañ alla þaa, sem Endurnyad hafa sijna Skijrnar-Loffunreyna meige gooda og hlijdna Þegna, er vita ad hvør sa, sem Ottast Gud, skal heidra Kongeñ. Blood Lijfe og Lucku, Blood Sooma og Heidre, Blood øllum þijnum Goo-da ad vera hiaa og yfer Heñar Majestet, Vorre Allra-Naadugustu Drottningu, LOVICE, Samt Eckiu Drottninguñe SOPHJU Magdalenu, Þeirra Veiger stadfestest i þijnum Otta, þiñ Vilie sie Þeirra Majestets Vilie, og laat alldrei af ad giefa Þeim nya Vitnisburde uñ þijna Guddoomlega Elsku! Hañs Konunglegu Haaheit, Vor Naadugaste Arfa-Printz og Herra, Printz CHRJSTJAN, Samt Þær Konunglegu Princessur, siñe vid hvørt Foot-Maal Þau gaanga, þig, sem Veg-

 vijsa-

vlſſara; og þijna Myſkun, ſem Ba-
ratekt; Bw þu i Peirra Hiørtum,
og laat Pau hvijlaſt a þijnum Or-
mum. Giør vel vid Pad giørva-
lla Konunglega Arfa-Hws; Gi-
æd þu Pad med þiñe Naad, og auk-
tu þijnar Bleſſaner yfer þvi! Tak
ad þier allañ Chriſteñdoomeñ!
Beittu Adſtod og Forſvar þeſſum
Rijkium og Løndum, ſamt hvørium
einum Jñbyggiara i þeim;
Gief oſs Frid allt uñ kring, eñ allra
hellſt vid þig! Vardveittu oſs
fraa næmum Slwkdoomum, Eñ
ſierdeiles fraa þeirre Synd, ſem
ſaurgar vorar Saaler! Utbijttu
Braude til allra Hwngradra Muña!
Uthelltu Huggun i allra
Sorgbiteña Hiørtu! Pijn Hond
forſvare allar Eckiur, Fødurlauſa
og Yfergiefna. Pitt Auga ſiaae
fyrer Vegfarendum! Pijn Bleſſ-
an-

an fylge þeim er leita ſinar Atvinnu! Þitt Heilaga Ord unmvende þeim Syndugu! Þijn Oendanleg Myſkunn take paa Uumvendtu til Naadar! Verkadu þad, ad Saalunn þeirra Siwku vel lijde! Og vijſa hinne ſijdurſtu Andvørpun þeirra ſem deya i Trwnne, Veigenn til þijns Hiarta! Gief oſs øllum meir enn vier høfum umbeded, ſamt meir enn vier ſkyniumm ad bidia! Vardveittu allann vorn Anda, og Saal, og Lijkama Oſtraffanlega allt til vors DRottenns JEſu Chriſti Tilkomu, Amen, J JESU Nafne, AMEN.

---

## Bæn Epter Predikunena A Kongs-Bænadagenn.

Eilijfe Allsmektuge Gud, Myſkunſamaſte millde Fader, Vier þijn frafallenn Børn

komum nu aptur med þeim Fortap ada Syne, til þijns Hwss, og af allre vorre Saal og Hiarta priisum þijna yferstlootaũlega Giæsku, sem þu Tijd epter Tijd, Aar epter Aar, so Fødurlega hefur audsynt oss allt til þessa Dags. Einkaũlega, ad þu af skiærre Naad og Myskun hefur giefed oss hreinaũ Lærdom þijns Heilaga Lijfkroptuga Ords, hvar med þu eñ nu so rijkuglega forsorgar vorar hwngradar Saaler, Sem med hvi rietta Himna-Braude og Manna. Þu hefur þar ad auke blessad oss med øllu Goodu, Lijkam ans vegna, og næsta Fødurlega frijad oss og þetta vort kiæra Fødur-Land, fra adskiliaulegum stoorum Land-Plaagum, sem oss aũars hefdu kuñad ad henda og tilfalla. Fyrer þetta alltsamaũ, og hvad þu hier ad auk hefur audsynt oss, Aũad-
hvert

hvørt øllum Almeñelega, Ellegar
nockrum af oss Sierdeilislega af
þiñe Fodurlegre Giæsku, Þu vor
Gud, og þitt Allra Heilagasta Na-
fn vere Blessad og haatt Lofad af
oss Eilijflega. DROtteñ, Þiju
Verk eru mikel vor a medal, Vier
tolum þar uñ, Eñ þo vier kñuum
ecke ad reikna þau. Vier fram-
telium þijna Velgiorninga vid oss,
og gledium oss, ad þu so vel hialp-
ar oss. Eñ AE! Hvad erum vier
O Gud! ad þu myñest vor? Og hv-
ad eru vor Verk, ad þu virder oss so
mikels? Vier meigum sañarlega
vidurkieña og klaga saarlega, ad vi-
er eckert sijdur høfum forþienad af
þier, eñ þijna Naad, hvøria vier so
optlega høfum medtekid forgiefens,
ad vier høfum ecke viliad laata lei-
da oss þar med til eirnrar alvarleg-
rar og sañrar Ydranar. Þvi vier
O 6 høf-

høfum syndgast, O Drotten, vier høf-
um syndgast og giørt Oriett fyrer
þier, Vier høfum vered Ogudleg-
er og erum Mootþrooañlega burtu-
vikner fraa þijnum Bodordum og
þijnum Riettindum. Vier høfum
vered þverbrotner, og hlijddum ecke
þijnum Pienurum, Sem tøludu i
þijnu Nafne til vorra Konga, vor-
ra Hofdingia, vorra Fedra, og til
alls Foolksins i Landenu, O Drotteñ
þier heyrer Riettlæte til, Eñ vier
meigum skamast vor. AE! Vorar
Synder, Vorar Synder, Vorar
Synder liggia hardt aa oss, Vorar
Synder nidurþryckia oss, Vorar
Synder hroopa i Himeneñ, og vier
blygdunst ad upplypta vorum A-
siaanum til Himens fyrer Fiølda
Saker vorra Misgiorninga! Þvi-
ad vorar Synder eru uppvaxnar
yfer vort Høfud, Og vor Søk er
stoor

ſtoor allt upp til Himenſins: Opt
høfum vier laated ſiaa oſs ſorgfulla
fyrer Syndena med Bæn og Føs-
tu, med Andvarpe og Kløgun, Eñ
hvada Ydrunar Averte hefur þu
ſijdañ funded hiaa oſs? Vier hroo-
ſum oſs af Trwñe, eñ Kiærleikureñ
aan hvørs vor Trw er ecke utañ
daud Trw, fiñſt nu varla (þvi verr)
framar hiaa oſs. Vier køllum oſs
ſiaalfer Chriſtna, Eñ Gud naade
oſs, Hvad Aumañ og Faanijtañ
Chriſteñdoom vier ſijnum opt og
Tijdum vor aa medal, fuller af þe-
im Slæmuſtu Syndum og Svij-
virdingum, hvar med vier volldum
þvi, ad þitt Allra Heilagaſta Nafn
verdur ſo opt Spottad aa medal
Heideña Piooda. O vei, O vei oſs!
ad vier høfum ſo Syndgaſt. Og
hvad ſkylldum vier ſegia? Hvad kyñ
um vier klaga? Poott þu nu villd-

er lꝏta þig ꝏngra allt þad Gooda sem þu hijngad til hefur oß audsijndt, og þreytast ꝏ ad Myskuna þig framar yfer oß, Eñ þar ꝏ moot vitia vor med þeim hørdustu Plꝏgum, og ofurselia oß megnum Villu doome, ad vier skylldum triva Lijge og Felskum Lærdoome. ÆDROtteñ! Þu hefur funded vora Misgiørninga, Og vier meigum Riettelega jꝏta, ad vier sañarlega høfum forþienad, Ecke alleinasta allt þetta, helldur og eirneñ þad sem eñ nu er allra þyngst, þijna eilijfa Reide, Daudañ og Eilijfa Fyrerdæming. Eñ fyrer þijns Nafns Saker, DRotteñ vertu Nꝏdugur og Myskuna þig yfer oß. Æ! Straffa oß þo ecke i þiñe Bræde, Og Typta oß ecke i þiñe Grimd, Helldur midt i Reideñe mynstu ꝏ Nꝏdena og Myskunsemena, Þvi vier

vier vitum ad þijn Myſkunſeme hefur aungvañ Enda, og vier forlætum oſs uppa þiñ Eid ſem þu ſoorſt oſs, Ad þu vilier einſkis Syndugs Mañs Dauda, helldur ad hañ umvende ſier og life. Þar fyrer liggium vier nu med voru audmiuw ku Hiartans Bæna Akalle, fyrer þijnu Auglite, ecke uppa vort Riett læte, helldur uppa þijna ſtoru Myſkunſeme, og hroopum af ſorgfullu Hiarta i Trwñe: Æ Fader! vier høfum ſyndgaſt i Himneneñ og fyrer þier, og erum ecke verduger ad kallaſt þijn Børn. Fyrergief, Fyrergief O millde Fader, allar vorar Synder, fyrer Saker þijns Eingietens Sonar JEſu Chriſti, Og wtſliett allar vorar Yfertrodſlur fyrer hañs dyrmætu Forþienuſtu. Alijttu hañs Hlijdne, Og tilreikna oſs ecke vora Ohlijdne. Laat hañs Fridþæg-

hæging koma oss til Gooda, Sem
hañ med sijnum Dauda hefur oss
wtvegad, og gief oss Glede sem erum
hañs Endurleyster, Ad vier aller
mættum faa Fyrergiefning vorra
Synda fyrer hañs Skulld.
Laat þitt Heilaga Ord bwa all-
tijd rijkuglega vor a medal, Med
riettre og Heilsusamlegre Tijdkan
þeirra Hæverdugu Sacramenta,
Og vert alldrei so Reidur vid oss, ad
þu nockurn Tijma añad hvørt um̃-
breyter, eda ølldungis burtsvipter
þessum Heiløgu Hlutum fraa oss,
allt til Veralldar Enda. Gief
riettskickada Predikara og Kieñend
ur, sem bæde Kieñe vel og Life vel, og
laat þitt Ord alltijd faa Fram̃gang
fyrer þa, Þier til Dyrdar og Foolk-
enu til Saaluhiaalpar. O Christe
JEsu! vidhalldtu þiñe søñu Evan-
gelisku Kyrkiu, i moote øllum Of-
soofn-

sooknurum og følskum Kieñendum, og laat vora Motstandara og allañ Heimeñ siaa, ad þar er þo eirn Gud til, sem alleina er DRotteñ yfer sijn um, og vill Volldduglega vernda þa i moote sijnum Ovinum.

Hafdu, O Gud! alltijd Eitt vakande Auga, yfer Landsins Gooda Fødur, Þijnum Smurda, Vorum Allra-Naadugasta Arfa Konge og Herra, N.N. Auk þu Hañs Herra dæme i þijnum Otta, og halltu uppe Hans Konga-Rijkium med Riettlætenu. Vernda Hans Majestet i moote øllum sijnum Ovinum, Hei muglegum og Openberlegum, og gior þa til Skam̃ar sem Raadslaga i moote hønum. Vittu fast Kong sins Hiarta vid þitt Hiarta, ad Hañ i øllum Hlutum meige leita þiñar Dyrdar sem þiñ Þienare, og alltijd bera Um̃hyggiu fyrer Efling

þiñar

þiñar søñu Kyrkiu, So sem heñar rietta Forsvar og Foostur-Fader. Æ DRotteñ! Lat Kongeñ lifa, og blessa Hañ fram yfer alla Hans Fedur, Veit Hañs Majestet Laang giædt og Luckusamt Regimente, og gief ad Hañ meige Alldradur verda i Fride og goodum Døgum.

Gior Myskunseme vid Heñar Majest. Vorrar Allra-Naadugustu Drottningar, N. N. Og lat Heñar Ok alltijd vera fyrer þier. Uppfyll Heñar Majestet med þijnum Føgnude, og gief ad Heñar Hiarta meige alltijd gledia sig i þiñe Hiaalp. Sed Heñar Majestet med løngum Lijfdøgum, og set Heñar Saal Eilijflega fyrer þijnu Auglite.

Uthell þiñe Naad yfer Vorn Jedidiah og DRottens Elskulega, Hañs Kongleg Haaheit, Vors Naad-

Naaduggasta Arfa-Printz og Herra, N. N. Og set Hañ sem eitt Jnsigle aa þijnu Hiarta. Laat Hañs Saal alldrei hneigiast til nockurs Ills, Eñ gief honum Lysting til þijn og þijns Ords. Prijd Hañ med øllum Konglegum og Furstalegum Dygdum, og syn honum þijna Myskunseme, ad Hañ meige lifa.

Legg Naad og Prijs yfer Þaa Konunglegu Printza og Princesser, hallt þiñe Guddoomlegre Vernd yfer Þeim, og øllu þvi Konglega Arfa-Hwse. Vertu sialfur O! Gud eirn glooande Mwr i kringum Þaa, ad eingeñ Olucka meige snerta nockurn af Þeim. DRotteñ! Vitia þu Kongsins Hwß med þiñe Naad, og burt-tak alldrei þijna Myskun þar fraa Æfeñlega.

Blessa Hañs Kongleg. Majest.

Naad,

Raad, og gief ad þeir i øllum Hlut-
unn meige fylgia þijnum Raadum,
þier til Dyrdar, og Landenu til
Besta.

Blessa i sama Maata og vernda
Hans Kongl. Majest. Strijds-
Makt, bæde til Lands og Vatns.
Vertu sialfur eirn Skiolldur og
Veria yfer þeim, i moote øllum
þeirra Ovinum, og gief þeim hlijd-
eñ Hiørtu ad Ottast þitt Nafn, trw
føst Hiørtu til ad þioona fwslega,
Einørd Hiørtu til ad beriast hraust
lega, nær Tijmeñ er, og samþyck
Hiørtu til ad vera stadføstum, aller
sem Eirn Madur, og Ottast ecke.
Laat þaa vera Kostgiæfna Kongen-
um og Landenu til Besta, og laat
Daudañ alldrei yferfalla þaa.

Befala þijnum Heiløgum Eing
lum, ad fylkia sier i krijngum allt
Landed, og burtsnw Raadarsamle-

gá

ga fra oss øllum maklega forþient-
um Plagum, Strijde og Bloods
wthellingum, Hwngre og Dyrtijd,
Storme og Ovedre, Ellds-Neyd
og Vatns-Voda, Pestilentiu og
ødrum faarlegum næmum Siwk-
doomum, samt allre aññare Olucku,
bæde til Lijfs og Saalar. Snw
til vor aptur þiñe Fodurlegre Giæ-
sku til allrar Tijmañlegrar og Ei-
lijfrar Velferdar. Gief Frid
DRotteñ um̃ vora Daga, Gief Lu-
cku og Velferd i vorum Løndum,
Laat þijna Dyrd fram̃veiges bwa
a medal vor, so Trwfesteñ og Sañ-
leikureñ mæteſt ſijn a mille, og Ri-
ettlæted og Fridureñ kysse hvørt añ-
ad. Blessa eirn og sierhvørn i siñe
Ærlegre Hondlan, bæde til Lands
og Vatns. Blessa vort Stand
og vort Embætte, vora Næring og
Biorg, vorn Sveita og vort Erfide,
Blessa

Blessa vora Stade og vora Akrá, vor Hws og vorar Karfer, og vorar Afgangs Leifar, Landsins Avextur og Lijssins Avoxtur vere blessadur fyrer þier. DRottenn! Bjood þinne Blessan ad koma yfer allt þad sem vier tokum oss fyrer Hendur, Blessan af Himnum ad ofann, Blessan af Underdiwpunum ad nedann, ad vor Blessan meige naa allt til þeirra eilijfu Hædanna Takmarka. Blessa oss Gud vor Gud, og Jordenn giefe sinn Avort. Audsyn O! Gud Jaatendum vorrar Trwar, sem i ymsum Stodum plagader eru, aasamt þinne sannre Christne, þijna Undrunarlega Giæsku, i giegn ollum þeim, sem setia sig upp aa moote þinne Hægre Hende, og laat þaa siaa og þeckia, ad þu ert þeirra Frelsare sem vona aa þig. DRottenn! Frelsa þitt Foolk, og blessa þaa sem

sem eru þiñ Arfur og Eigeñdoemur: Laat aungvañ af oss missa þijna Blessan, Tijmañlega edur Eilijfa, helldur vertu sialfur Lækner hiña Siwku, Hiaalpareñ þeirra Naudstoddu, Huggareñ þeirra Harmþrwngnu, Forsorgareñ þeirra Voludu, Forsvar Ecknaña og Fader Fodurlausra, Huggun allra Huggunarlausra; Hiaalp allra Hiaalparlausra, og Myskuna þig yfer oss allasamañ. O! Gud vertu oss aumum Syndurum Lijknsamur. Forlaat oss allar vorar Bloodugar Synder, og uppgief allt forþient Straff bæde Tijmañlegt og Eilijft, fyrer JEsu Christi, fyrer JEsu Christi Skulld.

Veit oss O Gud! þijna Naad, til Eins riettelegs og alvarlegs Angurs og Trega, Sekum mñlideña Synda, til eirnrar stodugrar Trw-

ar

ar og Trausts, Til Vors Frelsara JEsum Christum, og ad sijdustu til Gledelegs og Saaluhialplegs Vidskilnadar fra þessum Heime, ad vier alltijd mættum finnast i þiñe Pioonustu, Fuller af Trwñe og goodum Verkum, sem eru þeir riettu Ydrunar og Umvendunar Aveckter. Hiaalpa oss O Eilijfe Gud og Fader, ad vier alldrei framar meir føllum i nockurt Syndsamlegt Andvaraleyse, og skamarlega Forsoomum þeñañ vorn Vitiunar-Tijma, og vorn rietta Hialprædis-Dag, helldur ad vier alltijd vokum og bidium til þijn, uppa þad vier med einum styrkum Anda, i eirnre gladre Von mættum alltijd vænta Dijrdarlegrar Tilkomu Vors DRottens og Frelsara JEsu Christi, oss til fullkomeñar Eilijfrar Utlausnar og Saaluhiaalpar. Æ DRotteñ! Þu

Þu Haatt-Lofada Þrij-Eining, Fader, Sonur og Heilagur Ande, Heilage HErra Gud, Heilage sterke Gud, Heilage Lijknsame Lausnare, Þu Æfeñlege Gud, Heyr vora Bæn, Og gief þu Giætur ad vorre Graatbeidne, Heyr oss og Myskuna þig yfer oss nu og alltijd, Amen, Amen.

## Kong FRiderich Fioorda Bref, um̃ þañ Almeña Arlega Bæna-Dag, Fioorda Fostudag Epter Paaska.

VIER FRIDERICH Saa Fioorde, Af GUDS Naad, Kongur Til Danmerkur og Noregs, Vinda og Gauta, Hertuge J Slesvijk, Holsten, Stormarn og Dythmersken, Greife

fe| J Oldenborg og Delmenhorst
Giørum øllum Vitanlegt, ad,
epter þvi Vor Elskulege Kiære Hr.
Fader, Sællrar og Haaloflegrar
Myñingar, hefur þañ 27. Martij
Año 1686. Miøg Christelega til-
skickad, ad i baadum Vorum Rijk-
ium og tilliggiande Londum, skule
Aarlega þañ Fioorda Føstudag
epter Heilaga Paaska Haatijd, Ei-
rn Extraordinarie Bæna-Dagur
halldast, Og Vier med Stærstum
MISÞOCKA høfum maatt for
merkia, hvørsu ad marger, þri mid-
ur, skulu fiñast so Gaalauser og
Vangiætner, Ad þeir øllu meir
Hugsiwker eru fyrer Veralldleg-
um Hiegooma, eñ med Gudlegre
Andakt Kyrkiuna ad sækia, Synd-
er sijnar og Illskur ad afbidia og
sier aptur Guds Naadar og Myskun-
unseme ad Bidia. Pa høfum
Vier,

Vier, Til GUDS Dyrdar Framgängs aalited hædstu Naudsyn ad vera, Fyrrsägda Vors Elskulega Kiæra Hr: Fodurs Skickan ad Itreka og Endurnyia, so sem Vier og hier med Bioodum og Tilskickum, ad i bädum Vorum Rijkium Dannmörk og Norege, samt þar tilliggiande Londum, skal framveiges Aarlega aa þañ Fioorda Føstu-Dag, sñ næst epter H. Paaska Hatijd Jñfellur, Eirn Extraordinarie Bæna-Dagur halldast. Og uppa þad soddañ Gudlegt Verk, Og ad hvoriu so miøg stoor Makt ligg-ur, Meige fremiast med goodre og tilbærelegre Andakt, Vilium Vier, ad Allstadar, bæde i Kaupstødunum og aa Landenu, Kvølldenu fyrer aadurnefndañ Bæna Dag, klu-ckañ Sex, Skule hrijngt vera hiñe stærstu Kluckutil sierhvorrar Kyr-

P 2 kiu,

kiu, Og þær allar Bwder, Kiallar-
ar og Kroo-Hws, hvar nockurslags
Vara Edur Dryckur er Seldur,
skule strax til-lykiast, og eingeñ mei-
re Høndlun, Hvor hellst sem vera
kañ, at þvi Kvollde frameñ vera.
Og Bioodum Vier hier med og al-
varlega befølum, Vorum Kiærum
og Trwum Undersaatum, ad þeir
Riette sig hier epter, aan Dryckiu-
skapar, Skickañlega og Tijmañ-
lega at þessum fyrnefnda Almeñe-
lega Bæna Deige Til Kyrkiuñar
og GUDs Hwss i Eindrægne ad
koma, Og þar til allar Pioonustu-
giorder med Guds Hialp eru Gud-
rækelega afstadnar, Ad Fasta, og
sier frat ollu Erfide, Ferdalage,
(ad Postenum alleina undañtekn-
um) sem og Spilan, Leikum, Dubl-
an og odrum Veralldlegum Hiegoo-
ma ad hallda, og af Itrasta Meg-
ne

ne kostglæsa, med soddañ Christeleg re Andagt fram̃ ad koma, ad þad fyrer Gude meige vera Packnæmt og Þægelegt, hvørs vegna, a þessum fyrrnefndum Bæna-Deige, streingelega skal vera fyrerboded i øllum ordinarie Pensioner, Herberglum og Vertz-Hwsum edur Kroomm a Landenu, So vel sem i Kaupstødunum, Mat edur Dryck, Fyrr eñ øll Guds Pioonusta, Sem aadur er sagt, fullkomlega er af-staden, Neinum, Hvar hellst sem vera kañ, ad giefa edur fram̃reida, þeim Siwku og Veiku hier undañtekuum. Fiñest nockur ad skicka sier Otilbærelega hier i moote, straffest aan Mañgreinar Alits, sem mootþrooaskileger Yfertrodarar Vorrar Skipanar, Hvar med Yfervallded i Sierhvørium Stad skal Tilbærelega Tilsioon hafa, Og alvarlega þar ad

fylgia, So framt þeir ecke vilia af Vorum General Fiscal Tiltale mæta, Ef þeir sïñast hier wti Forsoomunarsamer ad vera. Og skulu Biskuparner i Fyrrskrifudum Vorum Rijkium og Londum, þetta Vort Bref af øllum Predikunarstoolum, Hvor i sijnu Tiltrwudu Stifte, Fyrer Søfnudenum laata lesa, og aññars tilhallda sijnum Underhafande Profostum og Prestum Aarlega, Suñudageñ Næst fyrer fyrr-sagdañ Bæna-Dag, sijna Tilheyrendur af Predikunarstoolnum, ad aamyña og æsijsa, Ad þeir med Christelegum Tilbwninge, Þetta Heilaga Verk, J Sparseme, Sidseme og Gudlegre Andakt fremie, Og i so Maata snwe sier til DRottens þeirra Guds af allre Saal og Hiarta, ad þad i ollu þeirra Lijfe og Lifnade, alltijd meige siaast og for-

merk,

merkiast. Þvi bioodum og befélum Vier Vorum Greifum og Fryherr um, Saint Stiftsbefalings Moñ. um, Biskupum, Amptmoñum, Lands Domurum, Præsidentum, Borg-Meisturum og Raade, Fogetum og ollum odrum Vidkomendum, hvørium þetta Vort Oped Bref under Voru Cacellij Jnsigle Tilsendt verdur, ad þeir þad aa tilheyrelegum Stødum ollum til Eptertektar, strax laate Lesa og Augliisa, so og þar med aasamt Profostunum og Prestunum, Kostgiæfelega og Forsvarañlega Tilsioon hafe, ad þessum Vorum Allra-Naadugasta Vilia i allañ Maata Tilbærelega epterbreitt verde. Giefed aa Voru Slote Kaupenhafn, Þañ 11. Aprilis, ANNO 1702.

Under Vora Konglega Hønd og Signet.

FRJDERJCK R.

(L.S.)

Ein

EJN ALMENNELEG

# Handbook

Fyrer Prestana.

Um Skijrnena i Kyrkiune og Heima.
Um Barn-Sængur og Yfersetu-Konur.
Um Kyrkiu-Leidslu Kveña.
Um Opeñbera Aflausn og ad vitia Siwkra.
Um Freistada og Fanga.
Um Hionabanded, og hvorneñ Lijk skal grafa.

Epter Saal. Kong CHRJSTJANS Fimta (Haaloflegrar Mynningar) Kyrkiu-Ritual.

1. Corinth. 14. Cap.
Laated alla Hlute Sidsamlega og Skickanlega framfara ydar a mille.

# UM SKIJRNENA.

EIngeñ, hvør hellst hañ er, skal laata hindra Børn sijn fraa Skijrneñe leingur eñ Løgeñ leifa, helldur strax þa Barned er fullfædt i Heimeñ, skulu Forelldrarner, edur adrer naalæger sorga fyrer þvi, ad þad skijrt verde hid fyrsta møgulegt er. Þeir sem vilia laata sijn Børn skijra, skulu giefa þad ædur Prestenum til Vitundar, og laata bæde sitt eiged Nafn, Barnsins og Gudfedginaña, Jñskrifa i Kyrkin-Bookena, hvørt Prestureñ siaalfur giører. Øll Børn eiga ad skijrast i Kyrkiuñe i heñar Skijrnar-Fonte, og Prisvar ausast yfer bert Høfud med Hreinu Klaarn Vatne, og þad i Nafne GUDS FØDurs, SOnar Og HEIlags ANDa

Eckta-Fooks Børn skulu skijrast strax, þa wte er Predikun, Eñ Hoorgieteñ og Frillubøreñ þa øll Þioonustugiørd er wte. Þær Persoonur sem Ærlegar eru, og hafa gott Mañ-Ord, skulu takast fyrer Skijrnar-Fedgin, þo ei fleire eñ Fim̃, Karlmeñ og Kveñmeñ til samans. Þa þau eru komeñ med Barned, geingur Presstureñ til Skijrnar-Fontsens, og framkvæmer Skijrnena aa Epterfilgiande Haatt.

Fyrst maa Presstureñ giøra þessa Aminyñing, edur adra þvilijka Rædu.

Elskuleg Systkin i Gude. Hvørsu dijrmætt þetta Haaleita Sacramentum er, þad kañ eingeñ wt ad skijra nooglega, Eñ þo skulud þier sierdeilis og einkum, athuga þessar Epterfylgiande Greiner.

1. Fyrer þetta dijrmæta Sacramentum Skijrnareñar, verda vor Børn Jñtekeñ i Samkundu Heilagrar Christne, til þess ad þau verde Hluttakande allra þeirra Velgiørninga, sem vor HErra JEsus Christus giefur sijne Elskulegre Brwdur, hvør ad er sw Christelega Kyrkia, Eñ Velgiørningarner og Gaafurnar eru þessar: Fyrst Heilagur Ande, Syndaña Fyrergiefning, og þad eilijfa Lijf. Þar fyrer segier St. Paall so: Vier sem erum skijrder, vier Jklædunst JEsu Christo: Þad er ad skilia,

Vier

Vier erum Christner, og allt þad JEsu Christo tilheyrer, þad er orded vort. Gal. 3.

2. J Skijrneñe, fyrer Orded, verdum vier Guds elskuleg Børn, og lifande Bwstadur og Mustere hins Helga Anda, hreiner og klaarer af øllum Syndum, sem vier erft hofum epter vora Forelldra. Þar fyrer segier vor HErra JEsus Christus sialfur so: Nema hvi ad eins ad Madureñ Endurfædest af Vatne og Heilogum Anda, þa kañ hañ ecke iñ ad gaanga i Guds Rijke. Joh. 3.

3. J Skijrneñe verdum vier Andlega Jardader og uppriijsum af Dauda, med vorum HErra JEsu Christo, til ad lifa i einum nyum Lifnade, uppaa þad, ad vier skullum eilijflega med honum lifa, Rom. 6.

4. I Skijrneñe fyrer Orded verd um vier Trwlofader og Fester/ JEsu Christo vorum HErra, ad vier sieum hañs Flecklaus Brwdur, og samteingiunst honum i Dyrdeñe, Heilagleikanum og Ostraffanlegu Framferde, Eph. 6.

5. Fyrer utañ alla Verdskullduan vorra Verka, alleinasta wt af skiærre Naad og Myskun, giorer Gud oss Saaluhoolpna, fyrer Endurfædingar Skijrnena, og Endurnyan Heilags Anda, hverium Heilogum Anda Gud Fader fyrer siñ Eingieteñ Son, vorn HErra JEsum Christum yferfliootanlega wthellet yfer oss, uppaa pad, pa vier erum so Riettlaater vordner af hañs Naad og Myskun, mættum vier verda Erfingiar eilijfs Lijfs, Tit. 3.

Og nu uppaa pad good Syskin, ad

ad þetta Barn mætte odlast slijka Naad, þa vilium vier nu alvarlega aakalla og bidia Gud Almattugañ, hvøiad Diøfulleñ sem er allra Christeña Maña, og þeirra Saaluhiaalpar Ovinur, hañ giører sier eckert ad Gamne vid oss, i moote hvørium ydur byriar nu ad standa, med sañre Trw og alvarlegre Bæn til Guds, vegna þessa Unga Barns.

So Spyr hañ fyrst hvørt Barned sie heima skijrt; Og ef þad er ei aadur skijrt, ser hañ aafram, og segier:

Far wt hiedañ þu Ohreine Ande, og gief Rwm Heilogum Anda.

Sijdañ giøre hañ Kross a Eñe og Brioste Barnsins, Og segie um Leid:

Medtak þu Teikn hins Heilaga Kross, Bæde a Eñe, Og a Brioste.

So þa hañ nefner Andlited, Krossar hañ þad, Og Briooste d, þa hañ Krossar þad.

Sie fleire Børn ad skiira, þa giører hañ Kross og nefner Ordeñ yfer hvøriu fyrer sig.
So les hañ þessa Bæn.

Vier Vilium Bidia.

ALmaattuge Eilijfe Gud, Fader DRottens vors JEsu Christi, Eg aakalla þig fyrer þeñañ þiñ Þienara, (Þessa þijna Ambaatt,) Sem bidur uñ þijna Skijrnar-Gaafu, og girneſt þijna Eilijfa Naad, Fyrer þa Andlegu Endurfæding. Medtak þu hañ (hana) DROtteñ, Og so sem þu hefur sagt: Bidied og munud þier medtaka, leited og munud þier fiña, Knijed aa, og mun fyrer ydur uppløked verda. So gief nu þad gooda þeim sem bidur, og laat upp Dyrnar fyrer þeim sem aaknijr, ad hañ (hun) ødleſt Eilijfa Bleſſun þeſs arar Himneſkrar Laugar, og medtake Fyrerheited, Rijke þiñar Gaafu,

fu, Fyrer JEsum Christum vorn DRotten, Amen.

Lærtum oss enn framar Bidia.

ALmættuge Eilijfe Gud, þu sem med Strijdu þijns Riettlætis, hefur med Vatns-Floode fyrerdæmt hina Vantrwudu Verolld, og med þinn mikellre Myskun, Frelsader þinn Trwlynda Noa, og Atta Saaler med honum, og dreckter hinum hardwduga Pharaone, med ollum sijnum i Hafenu Rauda, og flutter þinn Lijd Jsrael þurrum Foot um þar i giegnum, þar med teiknande þa Hellogu tilkomande Skijrn, og fyrer Skijrn þijns Elskulega Sonar DROttens Vors JEsu Christi, hefur þu bæde Jordan og oll Vøtn helgad, og innsett til Hialpsamlegs Floods, og Rijkuglegrar Hreinsunar Syndanna. Vier bid-

sium

tum þig fyrer sömu þijna Oseigian-
lega Myskunseme, ad þu virdest þeñ
añ etc. Naaduglega ad aalltijta, og
hañ med riettre Trw ad giæda, ad
fyrer þessa Heilsusamlega Vatns-
Laug, dreckest af hönum og mææst,
þad allt sem hönum er af Adam
medfædt, og hañ sialfur þar til ver-
kad hefur, og ad hañ (hun) af Tölu
Vantrwadra Maña frasskileñ, J
Ørk Heilagrar Christne, Þurr og
Öruggur vardveittur verde, Jafn-
añ med glodande Anda og gladvær-
re Von, þijnu Nafne þioone, so hañ
med øllum Trwlyndum maklegur
verde, Ad ødlast Eilijft Lijf þijns
Fyrerheitis, Fyrer JEsum Christ-
um, Vorn DRotteñ. Amen.

Þar epter segier Skijre-Fadereñ:

Eg sære þig þu Ohreine Ande,
J Nafne GUds Fødurs og Son-
ar og Heilags Anda, Ad þu wtfar-

er og burt hverfer af þessum Pien-
ara JEsu Christi, Amen.

Lootum oss heyra þad Heilaga Evangelium sem Marcus skrifar i 10. Cap.

OG þeir færdu Ung-Børn til JEsu, ad hañ legde Hendur yfer þau, Eñ Lærefveinarner ætoldu þaa sem þau leiddu. Og er JEsus saa þad, Lijkade hønum þad eige vel, Og sagde til þeirra: Leyfed Børnunum til mijn ad koma, og bañed þeim þad eige, þviad þvilijkra er Guds Rijke. Sañlega segie eg ydur: Hvør hañ medtekur ecke Guds Rijke, sem añad Ung-Barn, Sa mun eige iñgaanga i þad. Og hañ took þau i Faang, og lagde sijnar Hendur yfer þau, og Blessade þau.

(Hvar vid hañ bæter þessum Ordum:)

Til þeirrar somu Blessunar villium vier og hiaalpa þessu Unga Barne

Barne med vorre DRottenslegre Bœn til Guds.

So leggur hañ Hondur yfer Barnsens Hof-ud, Segiande:

Fader Vor þu sem ert, etc.

Sien fleire Børn eñ Eitt komeñ til Skijrn-ar, þa leggur hañ Hendur yfer hvers ejns heir-ra Høfud, medañ hañ les Fader Vor, hvad, epter añad, so ad Bœneñ hreckve til heirra allra. Sijdañ geingur Presturen nær Skijr-nar-Fontenum, og hun sem Barned ber, Og segier:

DRotteñ vardveite þiñ Jñ-gaang og Utgaang, nu hiedañ i fraa og ad Eillijfu, Amen.

Sijdañ spyr hañ Gudsedgjned sem a Bar-nenu helldur, ad Nafne Barnsins, og so spyr hañ Barned þañig:

N. Afneitar þu Diøflenum?
Andsvar: Jaa.
Og ollum hañs Verkum?
Andsvar: Jaa.
Og ollu hañs Athæfe?
Andsvar: Jaa.
So spyr hañ fremur:

Trwer

Trwer Þu at Gud Fødur Almættugañ, Skapara Himens og Jardar?

Andsvar: Jaa.

Trwer þu at JEsum Christum hañs Son Eingieteñ DROtteñ vorn, Gieteñ af H. Anda, Fæddañ af Mariu Meyu, Piindañ under Pontio Pilato, Krossfestañ, Liiflaateñ og Grafeñ, Nidurstijgeñ til Helvijtes, Upprisen af Dauda, Uppstijgeñ til Himna, Sitiande til Guds Fødurs Hægre Handar, þadañ Komande ad Dæma Lifendur og Dauda?

Andsvar: Jaa.

Trwer þu at Helgañ Anda, og ad er ein heiløg Almeñeleg Kyrkia, Samneyte Heilagra, Fyrergiefning Syndaña, Holldsins Upprisa, og epter þetta Liif, Eiliift Liif?

Andsvar: Jaa.

N.

N. Villtu uppa þessa Trw verda skijrdur?

Andsvar: Ja.

Til hvorra allra Spurs-Maala, hvors fyrer sig, Gudsedgined sem helldur a Barnenu hefur skijrt ad svara Barnsens vegna: Ja.

So spyr han eñ þa ad Nafne Barnsins, og medañ þvi er hallded yfer Skijrnar-Fontenum, skijrer han þad med þvi sama Nafne, Og segier:

Eg skijre þig J Nafne FODurs, SONar, Og Heilags ANda.

Og skal han haga so Tale sijnu epter Skijrneñe, ad under eins og han nefner Fødureñ, eys han Vatnenu i Fyrsta Siñ yfer Hofud Barnsins, og þa han nefner Soneñ, eys han yfer þad i Añad Siñ, og þa han nefner Heilagañ Anda, eys han i Pridia Siñ. Þa Barned er nu skijrt i Nafne Heilagrar Þreñingar, setur Prestureñ Skijrnar-Kufliñ strax a Barnsins Hofud, og med siñe Handa Yferlegging, Les þessa Bæn:

Sa Almattuge Gud og Fader vors DRottens JEsu Christi, sem þig hefur Endurgieted fyrer Vatn

og

og H. Anda, og hefur þier allar þij-
nar Synder fyrergiefed, hañ stirke
þig, med siñe Naad, til eilijfs Lijfs!
Amen.

Fridur sie med þier! Amen.

Sie fleire Børn eñ eitt ad skijra, skal allt
þetta Itrekast fraa þeim Ordum:

DRotteñ vardveite þiñ Iñ-
gaang og Utgaang, etc.

Vid hvørt Barn fyrer sig.

Sijdañ endar hañ med Aminniñg til Gudfed-
ginaña og þeñañ Hatt:

GOod Systkin, Med þvi Pid er-
ud Gudfedgin þessa Barns, þa
erud Þid uppaa Guds vegna og yck-
ar Embættis, skylldug þessu Bar-
ne, Fyrst ad bera Vitne uñ, ad þad
hefur medteked Skijrn og Christ-
ne, Og ef Forelldrar þessa Barns
kuña fraa ad falla, aadur eñ Bar-
ned kiemur til Løg-Alldurs, þa eiged
Þid ad kieña Þvi sijn Christeleg
Fræde, Tiju Bodordeñ, Credo,
Pater

Pater noster, Jñsetningar Ordeñ Sacramentaña beggia, Og añad þad sem Barnsins Saaluhiaalp aahrærer, ef ad Þid erud Barnenu naalæg. Segied Fodur og Moodur, ad þau uppfræde Barnid i Guds Otta og goodum Siduñ, ad þad (þau) faae hallded sier vid JEsum þa þad (þau) er fullvaxed, so sem þad (þau) er nu honum fyrer Skijrnena Jñplantad.

Fridur sie med ydur! Amen.

Diaakneñ, eda Gudfedgineñ, segie Amen, þar þad stendur.

Eingeñ, utañ Vijgdar Persoonur meiga skijra; Eñ sie Barned so veikt, epter Fædinguna, ad þvi verde ei aan Lijfs-Haaska komed til Kyrkju, þa, sie Prestur ei naalægur, edur øñur skickanleg Kallmañs Persoona, sem komeñ er til Løg-Alldurs, maa Yfersetu-Konañ, eda øñur Gudhrædd Kviña, skijra þad i Hreinu Vatne, og ei ødru, soleides:

N. Eg skijre þig J Nafne Fodurs

FOdurs, SOnar, Og Heilags Anda.

Po skal þad skie i Tveggia, edur Prigaia Vaavottu, hid minsta, er vitna kunne um þad, ad Barned sie riett skirt J Nafne Heilagrar Preningar.

Bere þad til, ad Fædingen kome so hastarlega ad Moodurenne og Barned sie i Lijfs-Hættu, eptir ad þad er fullfædt i Heimenn, ad hun hafe ei Tijma ad kalla adra þar til, þa maa hun sialf skijra sitt Barn, sem fyr seiger: Dey þad þa, so er þad vel dæed, þar þad hefur medteked þa riettu Skijrn, hvar um Presturenn skal underviisa Moodurenne, ad hun ei efest.

# Um Heimaskijrd Børn.

Eckert Barn maa skijrast Heima, an fullra Ordsaka, ad Barned sie so veikt, ad þvi ei, an Lijfs-Hætska, verde komed til Kyrkiu.

Pad Barn, sem vegna Veikleika, er i Vitna Vaavottu Heima skijrt, skal færast til Kyrkiu, þa þad styrkest so miked, Ei til ad skijra þad aptur, Þvi ei er utan Ein Skijrn, helldur ad Skijrnenn stadfestest, fyrer Handa Yferlegging Guds Þienara, og Kunngiørest i Gudfedginanna Naalægd.

Pa þad kiemur, er vid þad giort, sem fylger:

Fyrst spyr Presturenn þa, (edur þann) sem Barned

ned ber: Er Barned ødur Skiirt?
Sie Andsuarad til: Jaa.
Pa spyr han: Hvor hefur þad skirt?
Pa Svarast: N.
Et þad skirt i hreinu Vatne? Jaa.
Er þad skirt i Nafne Fødurs, Sonar og Heilags Anda? Jaa.
Og þa a sa sem Barned hefur skirt, Eda nockrer af þeim sem þa vidvoru og vitna kuña, ad vera i Raand og vitna fyrer Prestenum, ad þad sie Skirt J Nafne Fødurs, Sonar og Heilags Anda. Sijdañ segier Presturen: Nefned Barned. Gud Vardveite þiñ Jñgaang og, etc.
Sijdañ Spyr hañ Barned.

N. Afneitar þu Dioflenum?
Og øllum hañs Verkum?
Og ølln hañs Athæfe?
Trwer þu aa Gud Fødur, etc.
Trwer þu aa JEsum Christum Son hañs, etc.
Trwer þu a Heilagañ Anda, etc.

Hvar til Gudfedgined, sem aa Barnenu helldur, Svarar Jaa, uppaa hvøria Spurning.
Og les hañ Gudspialls Ordeñ, Marci 10.

Og þeir færdu Børn, etc.

Og þar epter segier hañ: Til þeirrar sømu Blessunar, etc. Fader

A medañ hañ les Bænena, leggur hañ Hendur yfer Barnsins Hofud sem fyr segier. Sijdañ stadfester hañ Barnsins Skijrn a þeñañ Hatt:

GOod Systkin, Þetta Barn er aɑdur skijrt, J Nafne Fødurs, Sonar og Heilags Anda, og hefur allareidu medteked Heilagañ Anda med Syndaña Fyrergiefning, fyrer þvi skulum vier þad ei Endurskijra, ad vier ei giørum Spott og Haɑd ad Heiløgum Anda. Og skulud Þid Gudfedgin hier uñ framar øllum ødrum vitne vera, og Þacker giøra Gude DRottne vorum, sem þad hefur til Naɑdar teked fyrer Christum.

Og med siñe Handa Yferlegging, les þessa Bæn.

Sa Almaɑttuge Gud og Fader DRottens vors JEsu Christi, etc. Fridur sie med ydur, Amen.

Og endar hañ so med Amyning til Gudfedginaña, sem fyr segier.

Kome Heimaskijrt, og Oskijrt Barn, þa er lesed yfer þvi, eins og hinu, allt ad Skijrneñe, utañ vid þad er ei brwkud Særingeñ, og þa Presturen kiemur ad þessum Ordum: DROttens vardveite þiñ Iñgaung, etc. Lætur hañ þad Heimaskijrda Barn, verda eyter þar til bwed er ad skijra hitt. Sijdan genngur hañ til þess wt fyrer Fonteñ, og giører vid þad sem fyrr er sagt.

Þa fleire Heimaskijrd Børn koma i einu, þa er Itrekad: Gud vardveite þiñ Iñgaung etc. Spurningarnar, og Bæneñ: Sa Almaattuge Gud etc. Vid hvørt Barn. Eñ Evangelium, Fader Vor, Stadfestingar-Ordeñ, Good Systkyn, þetta Barn er aadur skijrt. etc. Amyñing til Gudfedginaña: Good Systkyn, med þvi þid hafed vered Gudfedgin. etc. Er lesed i einu yfer øllum.

Þoott vegna Flijters verde epter Nafnedi Heima-Skijrn, þa er hun eins Riett og fullkomeñ, og maa sijdan giefa Barnenu Nafn, eñ ei skijra þad aptur.

Uñ

## Um̃ Barn-Sængur Konur.

Ne Restarner skulu Kosigiæfelega undervijsa Oliettum Konum, og amyña þær, Ad þær med Þacklæte vidurkieñe, þa Blessan er Gud hefur þeim veitta, Og vakte sig fyrer Oadgiætne og Skadlegum Tilfellum, sem mogulegt vera kañ: Og Erfide Trwlega i þeirra Kalle, nær Tijmeñ kiemur, Vitande ad jafnvel þo øll þesse Kvøl sie Verdlaun Syndareñar, þa eru þær þo Gude þacknæmar i þeirre þiñe somu Stiett, Nær þær eru stødugar i Trwñe, Heilagleika og Hreinlijfe, Og med Poleñmæde vænta goodrar og miwkrar Lausnar.

So skulu þeir eirneñ Jduglega amyña þær, ad þær sieu Poleñmoodar, og opt og Tijdum befale DRottne sijna Vegu og siñ Lijfs-Avøxt til allrar Naadar og Verndar, Med þessum edur þvilijkum Hætte.

Eg þacka þier, Almattuge eylijfe Gud, Elskulegaste JEsu Christe, Fyrer þessa þijna Blessan. Og med þvi þu siaalfur befalad hefur, Ad Børneñ skule til þijn koma, Þa Offra eg þier

nu þessu mijnu Joositre og Lijfs Arverte, Og bid þig, Ad þu vilier hañ medtaka, Og jafnañ þier befaladañ vera laata, Pad hañ meige faa eillijf Not af þijnu Heilaga og Dijrmæta Bloode, Og nær Tijmeñ er, epter þiñe Velþocknan fyrer Eina gledelega og milda Lausn aan allra Meina koma i þeñañ Heim, Og Fyrer Pa Heilogu Skijrn verda Endurfæddañ til Eilijfrar Saaluhiaalpar, AMEN.

Eñ ef Eitt soddañ Barn deyr i Moodur-Lijfe, Edur aadur eñ þad komast kañ til Skijrnar edur Christne, Po fyrer utañ Forelldrana Yfersioon og Forsoomun i nockurn maata, þa hafa þau samt Eina gooda Samvitsku, Og meiga viss vera, ad þad er Eitt Guds Barn, Og hefur funded Naad fyrer Gude i Christo JEsu epter hañs eigeñ Fyrerheite, J hvøriu hañ hefur lofad ad hañ ville vera, Ecke alleinasta allra Trwadra, helldur og Eirneñ ÞEJRRA SÆDES GUD, Gen. 17. v. 7. Act. 8. v. 39. Pvi jafnvel þo þad, Epter Guds Oransakañlegum Vilia, ecke hafe kuñad ad nioota þeirra Riett Tilskickudu og Tilgiørdu Saaluhiaalpar Medala, Pa er samt eingeñ

ed Ete oa ad Gud, Hvør ecke er vid Medel bund-
en, hefur vissulega af sine Oferskiooanlegre
Naad, epter sijnum Ogrijpanlegum Wijsdoome,
med ødrum sierdeilis Hætte Medtekid þad til
Saaluhialpar, Eins og hañ giørde vid Jsraels
Børn i Egypta-Lande, Sem strax voru i Hel
fleigeñ, nær þau Fæddust, og þau sem a Fioru-
tiige Aara Reysu Tijma Ouunstoreñ burtu Doou
a Eydemørkeñe: So synest þad eirneñ ad Da-
vids Fyrste Son af Bath-Seba hafe daaed fyrer
Attunda Dag, Utan Umskurnar, og adur þad
honum var Nafn giefed, Þo segier David um
hañ: JEG KIEM TIL ÞESS, Og Þad
Ecke Til Mijn, 2. Sam. 12. v. 23. Hvad sa
goode Guds Madur munde alldrei hafa sagt,
hefde hañ aňars Trwad ad Barned være Fyrer-
dæmt af Gude.

Eñ ef Mooðureñ Andast af Barns-Førum,
Þa veit hun þo ad hun deyr i sine Stiett, og verd-
ur Hoolpeñ fyrer Barnburdeñ, Ef hun Trwlega
og Poleñmoodlega wtstendur sitt Erfide.



## Uñ Yfersetu-Konur.

Yfersetu-Konur eiga Fyrst ad Ransakast, Og
giefast Bref uppa sitt Embætte, eiga ad þioo-
na Rijkum og Fatækum fyrer Billeg Laun, þeim
er gieta; Eñ hinum uppa Guds vegna.

Hvør Prestur i sine Sookn a hær ad upp-

 frædа,

ſrada, Hvornenn þær ſkule hegda ſier vid Mood-
arena og Fooſtred.

1. Ad þær vite riett ad hugga Oliettar Kon-
ur ſem eru komnar ad Falle, og aa myna til Pack-
lætes vid Gud, fyrer þad þær eru Bleſſadar med
Lijfs-Avexte; Hvørt ei hlotnaſt øllum Konum,
og ad þær af Hiarta bidie Gud um Hiaalp og
Hiaaſtod, Hvør ed giører þad Beſta, Og leida
þeim fyrer Siooner, ad þad ſie Eirn Kroſs vegna
Syndarenar, Gen. 3. Sem ſliootl umſnweſt
til Gleðe, Joh. 16. Ef þær i Trwne med Pol-
enmæde bijda DRottens Tijma: Og ſkyllde
koma þar ad, þær ſyndeſt ad vera ſtaddar i Lijfs-
Haaſka, ad þær befale ſig Gude med ødrum þeim
ſem bera hans Kroſs; En hier um er ei vogande
mked ad tala, nema ſtoor Lijfs-Haaſke ſie fyrer
Augum. Þar næſt, ad þær fare varlega med
Fooſtred, ad þad ei af þeirra Medferd, faae nock-
urn Skada: Og ef þær finna þad lifande med
Moodurenne, en veikt i Fædingunne, Skulu þær
Befala þad Gude med þeſſum, Eda vidlijkum
Ordum.

O HErra JEſu Chriſte, ſem hefur ſier-
deilis Þocknan aa Ung-Børnunum,
ſem boren eru til þijn, Og hefur lofad ad
medtaka þau i Eilijft Lijf: Uppaa þad ſa-
ma þitt Ord, Framberum vier þier nu
þetta Barn i vorum Hiartans Bænum.

Med-

Medtak þu þad, O Allra Hiartkiæraste JEsu, Og laat þad Eilijflega niota þiñar Endurlausnar, Er þu ǫtvegader oss a þijnum Krosse! Amen.

Fædest Barned ad ollu, Eñ so Veikt, ad sijnest Daudvona, Skulu þær strax Skijra þad, Sem fyr segier, Og ef Tijme er til, þar hiaa lesa þessa Bæn.

O HErra JEsu Christe! Vier Offrum þier þessu Barne, uppaa þijn Eigeñ Ord, og Bidium þig, ad þu medtaker þad, og læter verda Sañ-Christed!

Eda eñ Stittra.

O HErra JEsu! medtak þu þetta Barn.

Sie Barned Daued i Moodur-Lijfe, bere þær sig ad hiaalpa heñe; Og ad þær þvi betur faae mynst þess er þeim aa Herdum liggur i þeirra Embætte, Þa skulu Prestarner Tvisvar aa Are, um Paaska og Michaelis Messu Leite, i Medhiaalparaña Naalægd, i hvorre Sookn, upplesa fyrer þeim i Kornum, Þessa Epterskrifada Poosta.

1. Ad þar þid hafed tekest aa Hendur þad Embætte, hvar med, margra Mædra og Barna Lijf er lagt i ydar Hendur, þa byriar ydur ad vera af Hiarta Gudhræddum, og heyra ydduglega Guds Ord, ad þier gieted hyggad þær þar med er i Sootteñe liggia, og beded fyrer þeim til Gu-

ds, og ad han vilie giefa ydur good Raad, og blessa i ydar Embætte, af sine Omælanlegre Raad, Og vited þad er hans, En ei Mannanna, ad wileida Børn af Moodur-Lijfe.

2. Skulud þier vera Umhyggiusamar i ydar Embætte, Ad bæde Mædurnar og Børnen halldest vid Heilsu og Heilbrigde, Og vited ad ef þau lijda Skada af ydar Forsoomun, Adgiætsluleise, Drickiuskap edur þesshattar illre Medferd, þa erud þier Mordingiar, Og Gud krefst þess Saklausa Bloods af ydur.

3. Skulud þier taka ydur Vara fyrer Þwing Synde, Hatre, Fiandskap og Hefndargyrne; Hafe nockur giort ydur Rangt, þa gleymed því af Christelegum Kiærleika, og lated ei þa Naudlijdande gialld; Sie Barned daudt med Moodurenne, þa bered ydur samt vid ad biarga henne.

4. Skulud þier med goodre Greind og Skinseme nmgangast vid þær Oliettu, Og elska þær sem ydar Dætur, Og sem Mædur hondled vid þær, Hugged af Guds Orde þa vid þarf, og biddied fyrer þeim, Aminned þær ad Erfida Trwlega i'sijnu Kalleerpter Guds Tilskipan, ad þær ei fyrer skamvinira Harmkvæla Skulld ijrerfare sijnum Lijfs-Aberte, sier til vondrar Samvitsku.

5. Skulud þier vera swsar til ad hiælpa Fatækum sem Rijkum; Ei skulud þier krefia Of-mikillra Launa, Helldur biooua þeim Or-Fatæku uppa Guds vegna. Þoott þier sieud eins skylldar ad hiælpa þeim er fæda i Saur-

Lijfe

